# ÆFIMINNING ÁRNA BYSKUPS HELGASONAR

EPTIR

EINN AF LÆRISVEINUM HANS

---

Magnum virum libenter,
bonum facile crederes.
*Tacitus.*

REYKJAVÍK 1877
PRENTUÐ Í PRENTSMIÐJU „ÍSAFOLDAR“
SIGM. GUDMUNDSSON

Það er góður og gamall siður, einnig hèr á landi, að halda uppi minningu merkra manna. Er þetta eigi að eins makleg þakklætisfórn til hinna framliðnu frá eptirlifandi frændum þeirra og vinum, heldur hafa slíkar æfiminningar og, ef sannar eru, mikla þýðingu fyrir sögu þess tímabils yfir höfuð, sem þeir lifðu á, og það því meiri, sem mennirnir voru sjálfir merkilegri. Þó verður æfi þeirra manna fróðlegust, sem lengst og bezt hafa fyllt fagran sess.

Þó seinni tímar þessa lands ekki sè einkennilegir af miklum sögulegum umbrotum, og þótt rás viðburðanna meðal vor állajafna líði fram lygn og hæg, þá hlýtur þó æfi þeirra manna, sem, eins og herra Árni, í sèrhverjum skilningi orðsins, voru öldúngar, á margan hátt að skíra hið innra og ytra líf þeirrar aldar og þess lands, sem þeir lifðu á.

Herra Árni fæddist 27. Október 1777 á Stað í Aðalvík. Faðir hans, Helgi Einarsson, prestur á Stað, síðar á Eyri í Skutulsfirði, og

prófastur í Ísafjarðarsýslu, var sunnlenzkur að ætterni; sonarsonur Hafliða prests Bergsveinssonar á Hreppphólum. Móðir herra Árna, Guðrún Árnadóttir prests í Gufudal var vestfirzk. Öll líkindi eru til, að Árni hafi í æskunni átt heldur örðugt uppdráttar, því bæði ólst hann upp í harðindaplázi, í harðindatíð frá 1777—1795, og faðir hans var á fátæku brauði, sem nú þykir engum boðlegt, nema með talsverðri peninga uppbót, enda sagði hann svo sjálfur frá, að hann var snemma vaninn við alla vinnu, þar á meðal sjóróðra á vetrum, og var honum svo lítið hlíft, þótt ungur væri, að þegar drengurinn skalf á sjó í kuldum og næðíngum, var honum sagt „að skjálfa sèr til hita“. Eins og reynslan sýndi síðar meir, stytti þetta uppeldi ekki æfidaga hans, enda mun það meðfram hafa komið í hann þeirri festu og seiglu, sem bjó undir ljúfmennsku hans og stillingu, og stundum kom fram, þegar á lá, til dæmis við öll opinber próf og yfirheyrslur, og hvar sem hann átti að koma opinberlega fram, því hann var, eptir sjálfs hans sögn, bezti examens-maður, og yfir höfuð öruggur í hverri hættu, þegar hann var kominn útí hana, eins og þegar söfnuðurinn varð hræddastur í Reykjavíkurkyrkju, meðan herra Árni var í stólnum, og flestir flúðu úr guðshúsi, eins og óðir væri, háir og lágir. Árið 1795 var Árni settur í Reykjavíkur latínuskóla. Dvaldi hann þar 4 vetur, og

var á sumrum hjá föðursystur sinni Guðrúnu, annari konu Þorvalds prófasts Böðvarssonar, er þá veitti barnaskólanum á Hausastöðum forstöðu. Þakkaði herra Árni þessari sumardvöl sinni hjá síra Þorvaldi að miklu leyti framför sína í skólanámi. Hann útskrifaðist úr Reykjavíkur skóla 1799 og fór þá að Skálholti sem kennari barna Hannesar byskups Finnssonar. Sagði hann svo sjálfur, að þetta hefði verið upphaf þeirrar hamingju, er honum fylgdi æfilángt, því bæði kynntist hann þar fyrri konu sinni Guðnýu Högnadóttur, og lærði mikið á þessu merkisheimili af umgengni við hússmóður sína og börn hennar, enda styrkti frú Valgerður hann síðar meir til siglingar. Til Kaupmannahafnar háskóla kom herra Árni 1804, tók sama ár inntökupróf með bezta orðstír, annað próf ári síðar með framúrskarandi orðstír, og tveim árum síðar (1807) embættispróf í guðfræði með afbragðs orðstír (egregie). Því næst gekk hann á hið þá veranda *Seminarium pædagogicum* fyrir málfræðínga, svaraði sama ár guðfræðis spurningu háskólans: *de vestigiis orientalis cujusdam philosophiæ in codice sacro, vel in monumentis ævi apostolici*, og hlaut heiðurspeníng háskólans úr gulli fyrir svarið. Var þó ekki hægt um vik fyrir únga námsmenn í Kaupmannahöfn árið 1807, því meðan á ófriðnum stóð milli Dana og Enskra, varð herra Árni, eins og aðrir stúdentar, að gegna

landvarnar skyldu sinni, og öll opinber bókasöfn voru lokuð.

Sè það sannmæli, að mest sè að marka, hvað hverr maður talar við sjálfan sig, þá væri óskandi, að dagbækur herra Árna, meðan hann dvaldi við háskólann, næði lengra, en þær ná. Það sem til er af þessum viðræðum hans við sjálfan sig, væri eptirtektavert fyrir únga námsmenn þar og annarstaðar. Þær bera vott um stöðuga iðni og ástundan í sönnum Guðs ótta, um fastan áhuga á að verja tímanum sèr og öðrum til gagns, og um alvörugefið hugarfar, sem þó als ekki var frásneiðt siðsamlegum skemmtunum. Meðal annars er það máske sjaldgæft að sjá menn á þessu reki vera eins kirkjurækna, eins og herra Árni hefir þá verið, því þessar dagbækur hans hafa margar fróðlegar athugasemdir inni að halda um þá helztu kennimenn (Holm, Fallesen, Clausen, Hutwalker o. fl.) sem þá voru uppi í Kaupmannahöfn. Sama er að segja um reikninga hans yfir kostnaðinn við háskóla-dvöl sína. Alt ber vott um sparnað, reglusemi og hófsemi, hver inntekt og hvert útgjald er nákvæmlega bókað. Á einum stáð segir hann: „mín oeconomia er svo á sig komin, að eg eyði „daglega í mat og drykk hèrumbil 24 skild- „ingum; það er of mikið, ef á efnahag minn „er litið, en máske heldur knappt fyrir magann“. Sá heimspekilegi blær, sem víða finnst í prèdikunum hans, sèrílagi öllu sem snertir

siðalærdómana, kemur þegar fram í þessum dagbókum hans. Hann heyrði meðal annara Treschow, sem þá var talinn fremstur heimspekiskennari meðal Dana, og fyrstur flutti Kant og Fichte hinn eldra inn í danskar bókmenntir. En sèrílagi gjörði hann sèr far um að undirbúa sig undir sína kennimanns köllun í því verklega, með því jafnan að heyra beztu prèdikara og stunda prestslega mælsku. Þar fyrir vanrækti hann enganveginn fyrirlestra, en segir þó um þá: „„af eintómum collegiis „verserast maður meira, en hvað maður grund„vallast, *ni fallor;* . . . mesta skemmtun hefi „eg af að lesa heima hjá mèr; . . . á collegiis „drottnar mikið Subtilitet og grautur . . . Balle „heyrði eg yfir Jóhannis vitam og fyrstu versin „af hans guðspjalli; það var ekki mjög prak„tiskt, að mèr þókti. . . . Eitt er að fá Ud„mærkelse, annað er að verðskulda þann sóma, „og þriðja að vera praktiskur, það er að skilja „skynsamur . . . gefi Guð mèr heilsu, kvíði eg „engu...“ “ Má af þessum sundurlausu hugsunum sjá, að hann snemma tók þá stefnu, sem síðarmeir var einkennileg fyrir hann, hvað sem hann fèkkst við, að skilja sjálfur og láta aðra skilja vel, og það, sem því fylgir, að vera ljós og auðveldur. Hann brýndi því opt og einatt fyrir lærisveinum sínum orð Qvinctilians: að stíllinn ætti að vera eins og sólin, sem lýsir einnig þeim, er láta aptur augun. Að afloknu embættisprófi, lagði hann,

eptir hvöt landa síns, háskólakennara Thorlaciusar, um stuttan tíma stund á norræn fornfræði, varð stipendiarius Arnamagnæanus, og sneri meðal annars á latínu fyrri partinum af Frostaþingslögum. Mun hann og um sama leyti hafa byrjað á ritgjörð, sem hann fleirum sinnum nefnir í brèfum sínum til vinar síns Bjarna konferensráðs Thorsteinssonar: *de magia vetere Septemtrionalium*, en sem hann að líkindum aldrei hefir lokið við. Dvöl hans erlendis var nú á enda, því 1808 var honum veittur Vatnsfjörður. Hann varð að sækja um leyfi til að þiggja brauðið, því veru hans á Seminario pædagogico fylgdi sú skylda, að takast á hendur skólakennaraembætti við latínuskólann hèr á landi, hefði þess verið krafizt. Að fengnu leyfi hvarf hann aptur heim til fósturjarðarinnar, en kom þó ekki inn fyr en í Júnímánuði 1809, því skipið, sem hann var farþegi á, hafði sökum stríðsins vetrarlegu í Noregi (Egersund, Christianssand) fór þaðan til Skotlands og loks til Íslands. Í þessu millibili hafði Lector við Bessastaðaskóla, síðar byskup, Steingrímur Jónsson fengið Oddaprestakall; sókti herra Árni þá til skólans, en komst ekki að. Þó herra Árni þegar vígðist til prests árið 1809, fór hann þó ekki vestur, en fèkk annan prest (síra Jón Matthíasson) til að þjóna Vatnsfjarðarbrauðinu í sinn stað þángað til 1811. Þetta ár var honum veitt Reyni-

valla-brauð í Kjós. Fluttist hann þaðan til dómkirkjukallsins 1814 og bjó í Breiðholti. Frá Martsmánuði 1816 til 31. Maí 1819 gegndi hann jafnframt kennarastörfum við Bessastaðaskóla, hafði sjálfur á hverju ári frá 1809 færri eða fleiri pilta til kennslu í heimaskóla og má því með sanni segja, að hann lá ekki á liði sínu. Prófastur í Kjalarnessþingi varð hann 1821, stiptprófastur 1823, fèkk Garðabrauðið 1826 og þjónaði því til 1858. Fèkk með lausninni frá embættinu byskups nafnbót, og með lögum frá 3. Marts 1860 300 ríkisdala eptirlaun af ríkissjóði. Frá 1823 til 1825 og aptur frá 1845 til 1846 gegndi hann byskupsstörfum, varð riddari dannebrogsorðunnar 1828, fèkk sama ár í aprílmánuði stiptsprófastsnafnbót (5. fl. № 8), og fèkk silfurkross sömu orðu 1853.

Eins langur eins og þessi embættavegur var, eins vel var hann genginn, embættunum og þeim sem embættunum þjónaði, til sóma. Hverri stöðu, sem herra Árni stóð í, fullnægði hann með dugnaði, snild, og sannri mannúð við alla þá hærri og lægri, sem hann í stöðu sinni átti við að skipta. Og hvort sem maðurinn er skoðaður, sem kennimaður eður kennari, þá kemur öllum, sem til þekktu, saman um það, að hann var bæði lærður maður og einkar laginn á að brúka lærdóm sinn sèr og öðrum til hagsmuna. Hvort sem hann var í stólnum eða sagði piltum til, var hann manna ljós-

astur og liprastur. Helgidagaprèdikanir hans bera það með sèr, að honum var gefið, öðrum fremur, að gjöra kristilega trúarlærdóma skiljanlega fyrir almenníng, og undireins sneiða hjá öllu því, sem fremur kynni að geta vakið efa en trúartraust hjá veikum og umkomulitlum sálum. Menn taki t. d. prèdikunina á Trinitatis hátíð, á 18. sunnudag eptir Trinitatis o. fl. Einkennilegastar eru þó ræður hans fyrir þá alúð, sem hann leggur við að brýna fyrir tilheyrendum sínum heilnæma og sannkristilega siðalærdóma, og þá heppilegu snild, sem honum er lagin til að gjöra þá girnilega. Hann er hvergi þurlegur nè stirður. Yfir höfuð er í ræðum hans fólgin þessi holla verklega heimspeki, eða rèttara talað lífsspeki, að dygð og ráðvendni hafi ekki síður fyrirheit þessa heims en annars, og þó sumir kennimenn sökki sèr, ef til vill, dýpra ofaní rannsóknir þess, sem leikmönnum hættir við að kalla leyndardóma trúarinnar, þá munu fæstir vera herra Árna fremri í siðalærdómskenningu kristilegrar trúar. Menn beri saman aðra prèdikun meistara Jóns á jóladaginn, sem tekur fyrir texta Jóhannesar guðspjall I. 1., við ofangreinda ræðu herra Árna á 18. sunnudag eptir Trinitatis. Eg býst við að leikmönnum varla virðist meistari Jón þar gjöri það þúngskilda ljósara, þarsem herra Árna þarámóti tekst að kenna hverju barni að þekkja sinn frelsara.

Hann varaðist „með óleyfilegu móti að vilja „gjöra sèr það skiljanlegt, sem sjálf ritningin „kallar leyndardóm guðhræðslunnar, og skapa „sèr með því eins mikil vandræði skilningsins, „og þau, sem átti hjá að sneiða“, og hafði ávallt fyrir hugskotssjónum, „að mannsins vitsmunir eru hálfverk“. Það hefir verið fundið að allri stefnunni í ræðum herra Árna, að skynsemin og skilningurinn sè látin vera í fyrirrúmi fyrir trúnni. En bæði ber þess að gæta, að sú var stefna þeirra tíma, sem hans kennimannlega mælska skapaðist á, og að þessi galli, ef galli er, því er öllu fremur brestur tímanna en hins einstaka kennimanns; — aldarhátturinn beitir sínu valdi í þessu eins og öðru, og sá blær, sem þótti góður á tímum meistara Jóns, þykir mörgum nú óhafandi. Heimspeki Kants fæddi af sèr um alla norðurálfuna þenna svo kallaða Rationalismus, sem í fögru og mildu formi kann að koma fyrir í ræðum herra Árna, en sem þó hvorki ber trúna nè tilfinningarnar ofurliða. Eins víst og enginn getur neitað, að ræður hans voru einkarvel lagaðar til að vekja hjá hverjum manni hverja góða og kærleiksfulla hugsun og tilfinningu, svo þær fèllu eins og mild dögg í mannshjartað, eins voru kenningar hans ávallt klæddar í ljósan og lipurlegan búning, orðfærið einfalt og viðhafnarlaust, niðurskipun ræðunnar skipuleg og hugsunarrètt. Hafi hann, sem vel má vera,

á stundum stælt eptir eldri kennimönnum (t. d. H. Blair), eða jafnvel snúið köflum úr ræðum útlendra klerka og tekið inn í sínar prèdikanir, þá mun slíkt og þvílíkt hafa viðgengizt hjá öllum rithöfundum í öllum löndum og á öllum tímum. Enda segir herra Árni sjálfur í formálanum fyrir postillu sinni, annari útgáfunni, frá 1839, að svo sè, og bætir því við, að „þeir, „sem vita það með vissu, að það er alt bezt „og rèttast, sem þeim dettur í hug, þurfi ekki „að brúka þessa aðferð". Megi líkja hinni kennimannlegu mælsku meistara Jóns við strítt jökulvatn, sem brýzt fram í gljúfrum með nið og háreysti, þá er stíll herra Árna líkari lygnu og tæru fljóti, sem líður fram hægt og hávaðalaust. En þar fyrir er það síðara eins djúpt og hið fyrra, og undirstraumurinn, ef til vill, þýngri. Sumir hafa fundið það að orðfærinu á ræðum herra Árna, að það sè á stöku stöðum dönskuskotið, en þó útlend orð kunni hèr og hvar að hafa læðzt inn, þá mun hitt víst, að orðfærið allstaðar er náttúrlegt, einfalt, ljóst og viðkunnanlegra í ritum andlegs efnis, heldur en það hefði orðið með nýgjörfingum, sem opt og einatt þurfa útlistunar við, eigi þeir að skiljast, og eiga því varla við þar sem talað er við og fyrir almúgann, sem betur fellir sig við allmenn orð, þó erlend sè að uppruna, þegar þau eru daglega viðhöfð, og eru búin að fá borgararètt í málinu.

En sè nú reyndar sá, sem þetta skrifar, ekki nægilega fær um að leggja dóm á herra Árna, sem kennimann, þá getur hann að minnsta kosti borið um, hvernig kennslu herra Árna var varið, og hún var svo, að hann hafði sèrstakt og því miður sjaldgæft lag á, að vekja athygli lærisveina sinna á öllu því verulega og áríðanda í hverri námsgrein; hann villti þeim ekki sjónar á höfuðefninu með smásmuglegum orðaklofningum og vísindalegu víravirki. Hann vakti tilfinníngar þeirra fyrir öllu fögru og merkilegu í því, sem þeir lásu, og lagði mesta stund á að kenna svo, að það, sem numið var, yrði minnisstætt. Sjálfur mun hann hafa verið, vera og verða öllum þeim minnisstæður, sem hjá honum lærðu, bæði með kennslu sinni og eptirdæmi. Það getur vel verið, að lærisveinar hans hafi lært minna eða máske heldur færra hjá honum, en latínuskólagengnu mennirnir lærðu í skóla; það er ekki eins víst, að þeir hafi lært það verr.[1]

Þótt það nú megi virðast nægileg störf fyrir einn mann, bæði að vera prestur í stórum og fólksmörgum sóknum, og undir eins prófastur, og halda jafnframt á ári hverju heimaskóla fyrir færri eða fleiri únga menn, sem opt ekki voru jafnlángt komnir allir, þá vannst herra

---

[1]) Auk ýmsra, sem hann sagði lengur eða skemur til, og, sem sumir ólust upp hjá honum, útskrifuðust frá honum fjöldi stúdenta, er síðar munu upp taldir.

Árna þó tími til ýmsra annara starfa, sem ekki snertu embættisstöðu hans. Bæði liggja eptir hann ritgjörðir ýmislegs efnis, t. d. saga siðaskiptanna (í Gamni og Alvöru), margar greinir í „Sunnanpóstinum", sem hann ásamt fleirum stofnsetti 1834, grafletur og grafminningar yfir ýmsa merka menn, sem allflestar voru snillilegar og gagnorðar (t. d. yfir konu hans, frú Guðnýju og Jón lektor Jónsson). Framvegis var hann frá 1816—1850 formaður deildar hins íslenzka bókmenntafèlags hèr á landi, og nærri því jafnlengi skrifari biflíufèlagsins. Það var maklegt, að hann var gjörður að heiðursfèlaga og seinna heiðursforseta bókmenntafèlagsins, því bæði var hann ásamt Rask, Finni Magnússyni og Bjarna Thorsteinsyni sá fyrsti stofnari þess 1815 (eiginlega var fèlagið, ef svo mætti að orði kveða, stofnað veturinn 1813—1814, sem Rask dvaldi á Reynivöllum hjá herra Árna), og einnig er það gætni hans og greind að þakka, að bókmenntafèlagið ekki missti aleigu sína um sama leyti og biflíufèlagið beið hið mikla fjártjón um árið. Honum er það ennfremur mest og bezt að þakka, að vèr nú eigum prýðilegan uppdrátt af landi þessu, því hann var frumkvöðull þess að Björn sálugi Gunnlaugsson var látinn starfa að þessu vandasama og kostnaðarsama verki. Með öllu þessu vannst honum tími til að kenna sèr sjálfur ýms nýrri málin, t. d. ítölsku og spánversku. Þýzku,

ensku og frakknesku hafði hann numið erlendis, og ensku sèrílagi á ferðinni frá Kaupmannahöfn til Íslands 1808—1809. Sem einn vott þess meðal margra, hversu vel hann leysti hvert það starf af hendi, sem honum var fyrir trúað, má geta þess, að þegar hann var settur varnarmaður hins alþekkta síra Ásgríms, varð skoðun hans ofan á fyrir hæsta rètti, þó hún yrði undir fyrir hinum lægra rètti, og það svo, að kæra stiptsyfirvaldanna gegn síra Ásgrími var af hæstarètti dæmd „ubeföjet". Sömuleiðis varði hann og vann fyrir Synodalrèttinum mál síra Sæmundar Holms. Herra Árni sat bæði í embættismannanefndinni 1839 og 1841, og um tíma á alþingi, og þó hann ekki þar heldur en annarstaðar gæfi sig mikið fram, þá mun það rètt hermt, að hvað helzt hann lagði til málanna, bar merki greindar og stillingar. Enginn hugsi heldur, að herra Árni, þó hann eptir aldri sínum tilheyrði hinni eldri kynslóð, þar fyrir hafi verið fráhverfur skynsamlegum frelsisframförum og frjálsara stjórnarfyrirkomulagi. Brèf hans til Bjarna konferentsráðs Thorsteinssonar votta, að hann „hvergi nærri áleit embættis„mannavaldið einhlýtt til að stjórna löndum og „ríkjum, svo vel fari, heldur muni það hèr eins „og annars staðar reynast happasælla að lands„lýðurinn hafi meiri eða minni áhrif á lands„stjórnina eptir framfarastígi sínu". Ekki átti hann heldur örðugt með að láta þá ýngri menn

njóta sannmælis, sem lengra fóru í frelsishreifíngunum, en hann sjálfur. „Ekki þykir mèr ó-„líklegt", skrifar hann sama vini sínum, „að Jón „frændi Sigurðsson verði merkilegur maður, „og ef til vill historisk persóna". Vel hefði farið á því, ef þeir ýngri hefði ætíð dæmt hann með sömu sanngirni og mannúð, sem hann sýndi bæði þeim og öðrum.

Þó að herra Árni, eins og sýnt hefir verið að framan, hefði stundir til allra þeirra starfa, sem um hefir verið getið, þá var hann þó fjarri því að vera ákafamaður. Hann hafði nægar tómstundir til saklausra skemmtana, var bæði gleðimaður og fèlagsmaður og svaf, eins og Geijer segir um Axel Oxenstjerna, alla æfi fullan svefn. Honum vannst furðanlega, og kom hvorki of seint nè of snemma til neins, sem gjöra þurfti. Þó hann lifði samtíða og innan um menn, sem, eins og þá var títt hèr á landi, sumir hverjir bæði voru djarfmæltir og djarftækir á „farsællegum hlutum", þá kunni hann sèr optast hóf, var glaður með glöðum, orðheppinn og, ef svo bar undir, meinlegur án hroða. Spaugsyrði hans höfðu á stundum hvassan brodd, en þau voru altènd hrein og fáguð, og mun enginn nokkurntíma hafa sèð nè heyrt neitt ófagurt til hans. Þó hann umgengist menn, og væri sumum handgenginn, sem sín á milli ekki lifðu sem friðsamlegast, á þeim tímum, þegar altítt var hèr á landi, að hendur

höfðingjanna voru hver upp á móti annari, þegar deilur, þras og málaferli voru á öðrum þræði, en hraut í kveðlingum, og þeim ekki ætíð sem fögrustum, á hinum, þá lánaðist honum að halda sèr utan við allan þann ófögnuð, úlfúðarlaus við hvern mann, og þó trúr hverjum sem honum trúði. Hann var, eins og hann sjálfur að orði kemst „vel sèður af Ólafi stiptamtmanni“, sem hann kallar gæðamann; hann var um tíma „Confessionarius“ Magnúsar konferenzráðs Stephensens, sem hann bar mikla virðingu fyrir, nákunnugur Sigurði landfógeta Thorgrimsen, aldavin biskups Steingríms Jónssonar og Bjarna amtmanns Thorsteinssonar, góðkunningi þeirra assessora Ísleifs Einarssonar og Bjarna Thorarensens, Þórðar konferenzráðs Sveinbjörnssonar, Sveinbjarnar lærisveins síns Egilssonar, sem báðir unnu með honum að „Sunnanpóstinum“, Dr. H. Schevings og margra fleiri, var meira eða minna trúnaðarmaður þeirra allra, og hèlt til dauðadags kunningsskap við þá, án þess að fylgja neinum flokkadráttum; er þó auðsèð af brèfum hans til Bjarna konferenzráðs Thorsteinssonar, að hann t. d. hefir reynt til að „sefa“ Magnús konferenzráð og „stilla“ Bjarna Thorarensen, eins og hann alstaðar kom fram til góðs, ef hann kom fram; lífsregla hans og orðtæki var: „sælir eru þeir, sem friðinn semja“, og því var það, að hann hèlt óskertri

hylli hvers þess af vinum sínum, sem vert var að hafa vinfengi við.

Það er satt að segja, að hann bæði að gáfum og geðsmunum var einkar farsællega útbúinn. Svipur og framganga góðleg og glaðleg — *lætissima facies, amabilis vultus* — og þó jafnframt höfðingleg, dagfarið alúðlegt og þó stillilegt, því þó maðurinn væri af náttúru geðmikill, mun enginn nokkurntíma hafa sèð hann gefa reiðinni rúm. Hann bauð í stuttu máli þann þokka af sèr, og kom svo fram í öllu, að hjá honum átti heima: *magnum virum libenter, bonum facile crederes*. Og hefði hann lifað á rýmra sviði innan um yfirgripsmeiri viðburði, þá hefði hann eflaust verið talinn með miklum mönnum, því miklum gáfum fylgdi hjá honum, það sem ekki ætíð er þeim samfara, mikil gætni; það er ekki þarmeð sagt, að hann hefði náð hæstu metorðum, því hann var ekki framgjarn maður; sýndi það sig í því, að hann eflaust átti einusinni, ef ekki tvisvar kost á að verða byskup Íslands; vildi hann láta fjallið koma til sín, en fjallið var þá einnig tómlátt, og tók heldur þá, sem gáfu sig fram og komu til fjallsins. Herra Árni fór með metorðin eins og auðinn, hann tók við því, sem að honum var rètt, en bar sig ekki eptir því. Heldur mætti segja, að honum hèlzt vel á því af þessu tvennu, sem honum hlotnaðist, eins og reyndar á öllu, gáfum, mannvirðingu, mannhylli, heilsu og lífi.

Herra Árni var tvígiptur, fyrst Guðnýu Högnadóttur (1809—1834) og í síðara sinni Sigríði Hannesdóttur byskups Finnssonar (1836—1869). Sama lán, sem bjó með honum yfirhöfuð, fylgdi honum einnig í hjúskapnum; því báðar voru konur hans mestu merkiskonur að allri kvennlegri siðprýði, þó þær að öðru leyti væri hvor annari ólík. Herra Árni dó barnlaus. Frú Guðný ól honum son, sem dó í, eða rètt eptir fæðinguna, og síðar varð honum eigi lífsafkvæmis auðið. En hann átti þar fyrir mörg börn, ekki að eins alla þá, sem hann kenndi, heldur einnig mörg fátæk skyldmenni og suma vandalausa, sem hann ól upp og uppfræddi, og tók sèr í barna stað. Síðari kona hans dó skömmu á undan honum. Sjálfur skyldi hann við 14. dag Desembermánaðar 1869, eptir langa og heldur þunga legu. Þótt hann væri þá á tíræðisaldri, leit svo út sem lífskrapturinn væri ekki þrotinn, svo hart var helstríðið. Enda hèlt hann sálar- og líkams kröptum óskertum fram í andlátið, hafði góða sjón og heyrn og fulla greind á öllu.

Jarðarförin fór fram 27. dag desembermánaðar og var hún, eins og við var að búast, hin fjölmennasta; hana sótti þorri fullorðinna manna í Garða- og Bessastaðasóknum og flestir embættismenn og námsmenn úr Reykjavík, er ásamt mörgum öðrum þaðan, og máske víðar að, lètu í ljósi virðingu sína fyrir honum,

þakklátsemi sína og elsku til hans, með því að fylgja honum til hans síðasta hvíldarstaðar.

Herra Árni var með hærri mönnum og að því skapi gildur. Framan af æfinni var hann frækinn og góður glímumaður, með aldrinum varð hann þungur á sèr. Andlitið var nokkuð stórskorið, hátt enni, og stórt nef. Hann var munnfríður og vel eygður; varð snemma sköllóttur. Hann hafði góðan kennimanns róm, án þess að vera söngmaður. Dags daglega var hann kátur og ræðinn, og þókti gaman að spilum og tafli.

Eg hefi ekki betur vit á, enn að herra Árna sè þannig rètt lýst, og hefi þá von, að hann sjálfur, sem mest er um vert, verði ánægður með þessa lýsingu, þó hún sè stutt og fleira hefði mátt til tína. Hann var aldrei fjölorður sjálfur.



# Húskveðja

## við jarðarför **Árna** byskups **Helgasonar**,

flutt af síra **Þórarni Böðvarssyni**,
presti að Görðum á Álptanesi.

Mikli húsfaðir, himneski faðir, þú einn ert mikill, þú einn ert góður, og allt sem er gott er frá þér. Eins og líkamir vorir leggjast á fótskör þína, svo lýtur andinn eilífri hátign þinni, og lifir í þèr og fagnar í þèr í gleðinni og huggast í þèr í sorginni og vonar til þín í dauðanum, Amen.

---

„*Vertu róleg sála mín, því drottinn hefir gjört vel til þín, því hann frelsaði mig frá dauðanum, auga mitt frá gráti, fót minn frá falli*“. (Sálm. 116., 7.—8.).

Þegar það andríka skáld lítur yfir alla gæðsku drottins, þá felur hans djúpsæi, kristni andi allar velgjörðir guðs í þessari andríku lofgjörð. Og hvílík sæla er það, að geta hafið andann til drottins í þessari lofgjörð! En hverjum hlotnast þessi sæla, að drottinn varðveiti frá dauðanum í þessum dauðans bústað, augað frá gráti í þessum táradal, fótinn frá falli í þessu stundlega myrkri og synd? Hún hlotnast þeim, sem ganga fyrir drottni á landi hinna

lifandi; því eins og hèr er land hinna dauðu, sem er forgarður þeirra eilífu dauða bústaða, þar sem menn þreyta veðhlaupið um þetta stundlega, uns dauðinn bindur hendur og fætur, og kastar í hin yztu myrkur, svo er hèr líka til land lifenda, þar sem vèr göngum fyrir guðs augliti, það er forgarður eilífðarinnar, þar sem friður guðs er yfir oss, og hinn innri maður endurnýjast, þó hinn ytri fyrnist. Það er það hulda líf með Kristi í guði; það er hulið heiminum, hann þekkir ekki líf Krists í hans trúuðu; það er jafnvel hulið þeim, sem því lifa; því þeir skilja ekki framför andans; þeir finna verkanir hans í friði og fögnuði heilags anda. Og lífið varðveitist frá dauðanum; þeir sjá hann ekki að eilífu; augað varðveitist frá tárum, þeir fagna í guði, sínum heilsugjafara; þeir ganga í ljósinu og fótur þeirra skeikar ekki.

Þvílíkt land lifenda hefir þessi bústaður verið til skamms tíma. Mèr er sem jeg heyri þessa lofgjörð frá þeirri rólegu sálu, sem bjó í þessum örenda líkama, og með henni vil eg hefja minn anda til drottins á þessari hátíðlegu sorgarstundu; hann er uppspretta alls þess, sem er háleitt og gott; hann gefur og tekur; hann ræður lífi og dauða, hann einn getur gefið oss frið á þessari stundu. Því það er mikil og almenn sorgarhátíð, sem vèr nú byrjum, þegar vèr búum oss til að færa úr bústöðum hinna lifandi örendan líkama hins elzta kennimanns á þessu landi, eins hins vitrasta og virðingarverðasta manns, sem lifað hefir á því á þessari öld. Vèr höfum nýlega staðið hèr og sèð þá háæruverðugu húsfrú hverfa hèðan; oss fannst þá, oss fannst opt, að þessi stund væri fyrir hendi, en þegar hún nú er komin, hefir

hún þó svo mikil áhrif á oss. Hèr er að vísu ekki sú sára sorg, þegar hinir nánustu sjá ekkert ljós, enga vonarstjörnu. Það er almennur söknuður, sem að vísu er rólegur og yfirvegandi, og einmitt þess vegna getum vèr sèð svo ljóslega og fundið svo djúpt, hver hann var, sem nú á að hverfa augum vorum. Það eru margar þær beztu stundir lífs vors, sem nú renna upp í sálum vorum, sem meira eða minna voru tengdar við líf þessa framliðna, meira eða minna helgaðar af hans anda. Hèr eru nokkrir hinna mörgu, sem hann á æskuskeiði leiðbeindi á veg vísinda og mennta; þeir minnast þess nú með þakklæti, hve mikinn þátt hann átti í því, að þeir komust áfram á þessum vegi. Hèr er fjöldi þeirra, sem höfðu því mikla láni að fagna, að eiga hann fyrir sálusorgara yfir 30 ár. Þèr sóknarmenn þessa framliðna, án efa hafa tilfinningar hjartnanna leitt yður hingað til að helga þessum virðingar- og elskuverða kennuföður yðar, tilfinningar þakklætis og saknaðar, þeim kenniföður, sem fræddi yður, aðvaraði, huggaði og leiddi á lífsins vegi; þeim kenniföður, sem vígði yður til trúar á það nafn, í hverju einu að er líf og sáluhjálp, og kenndi yður með orði og verki, hvernig þèr gætuð öðlazt þessa sáluhjálp. Hjörtu yðar eru snortin, þegar þèr nú í síðasta sinni eruð hjá bústað hans, sem svo opt kom með friðar heilsan í yðar bústaði, þegar yðar hjörtu voru óróleg; hjörtu yðar eru snortin, þegar þèr nú standið hjá líkbörum hans, sem stóð hjá sóttarsæng sjálfra yðar, hjá líkbörum yðar nánustu og huggaði með föðurlegum vísdómi, og tók með bróðurlegum kærleika þátt í kjörum yðar. Já, þeir eru ekki fáir, sem nú hafa sömu tilfinn-

ingar og ef það væri bezti faðir, sem þeir nú eiga að kveðja, og mörgum nærstöddum gekk hann í vanalegum skilningi í föður stað. Allir vèr, sem opt höfum komið í þetta hús, erum djúpt snortnir á þessari skilnaðarstundu. Þær eru á enda, gleðistundirnar, í þessu húsi, þar sem öllum mætti sæl gleði, einlæg velvild, þar sem hver sem vildi fann streyma að sálu sinni nýja geisla himneskrar speki eða heilnæmra sanninda. Það er ekki eingöngu líf sjálfra vor, sem nú rennur upp fyrir oss, heldur og líf feðra vorra og margra annara; sumum þeirra hefir hann þegar heilsað á hinu sanna landi hinna lifandi; aðrir verða snortnir eins og vèr, þegar þeim berst þessi sorgaratburður.

Æ, hjörtu vor eru svo full, hugurinn er gagntekinn af svo mörgu, þegar vèr eigum að kveðja þennan háæruverðuga öldung. Vèr höfum svo margt að segja sjálfum oss og öðrum. En hèr þarf enginn að annar tali; hver einn hefir nóg að segja sjálfur um það, hvað þessi framliðni var fyrir guðs ríki á jörðunni, fyrir ríki vísindanna, fyrir almenning, fyrir hinn einstaka. Eg vil þess vegna segja svo lítið. Hann leitaði ekki lofs af mönnum á jörðunni; hann þarf ekki jarðneskt lof í himninum. Guðs velþóknan var von hans, guðs velþóknan er nú sæla hans. Með hans rósama anda viljum vèr gjöra vorar sálir rólegar með því að lofa hann, sem gefur alla góða og fullkomna gjöf, og gaf þessa miklu gjöf, lofa guð, sem gjörði vel til hans og vel til vor með því að gefa oss hann.

Guð gjörði vel til hans og vor með því að varðveita hann frá dauðanum. Vèr meinum ekki eingöngu til þessa líkams lífs, sem drottinn varðveitti til þess síðasta takmarks,

sem hann hefir sett því á þessari jörð, og þó er þetta vert mikils þakklætis. Því þó vèr samsinnum kristinni trú í því eins og öðru, að þeir sèu sælastir, sem komast sem fyrst í fögnuð drottins, þá er gott líf náðargjöf guðs, og gjöfin er því meiri, því lengra sem lífið er, það er hærri skóli til að læra vísdóminn, það er lengra skeiðrúm fyrir reynsluna, það er stærri víngarður til að sá í því góða og uppskera blessanina. Það er háleit og lærdómsrík sjón, að sjá þann, sem að kveldi lífsins getur litið með ánægju yfir langt og nytsamt líf, og fyrir nyjum kynslóðum boðað þann guð, sem var von æskunnar, styrkur fullorðins áranna og yfirgaf ekki í ellinni. Hèr mátti sjá slíka sjón, hèr appfylltist það fyrirheit, að þegar þeir verða gamlir, skulu þeir blómgast til að kunngjöra, að drottinn er trúfastur. Guð hafði gefið þessum framliðna þá sjaldgæfu náð, að lifa án þess að eldast; hinn innri maður endurnýjaðist daglega, hinn ytri virtist gjöra það líka. Það var þess vegna ekki lengd þessa lífs, sem hèr er sloknað, sem vakti virðingu vora, heldur einkum fylling þess. Þessi sjaldgæfa, tignarlega mynd vakti virðingu vora þegar er vèr litum hana. Það var ljóst, að þar bjó andi vísdóms, máttar og góðsemi, sem hafði þegið sèr samsvarandi bústað. Að þessum knjám var ungbarnið velkomið; það nálgaðist þau öruggt, því blíðan og góðsemin duldist ekki. Það fann hèr leikbróður, sem guðsríki heyrði líka til, sem færði leikinn inn í guðsríki, en það fann undir eins þá miklu persónu, sem vakti virðingu þess. Sá fullorðni fann þetta enn ljósar, ljósast vísindamaðurinn, hann stóð hèr líka eins og barn. Guðsorð líkir heiðri

dárans við snjó á sumarnóttu; hann hverfur þegar ljós sólarinnar leggur á hann. Þessi framliðni var virtur því meira, því meiri sem birtan var og sjónin skarpari. Þeir vitrustu og beztu virtu hann mest, fólu honum vandasömustu verk, sæmdu hann útvortis heiðri. Hann leitaði ekki heiðurs; hann afbað það efsta sæti í sinni stöðu. En heiðurinn hlaut að koma, því lífið var heiðarlegt, og hin vandasömu verk leyst af hendi, ef ekki með frábærri snild, þá með einkennilegum skarpleik. Hann var jafnan vaxinn því efni, sem hann fór með, hann leit yfir það ljóslega, skýrði það stuttlega. Honum var gefið það sjaldgæfa lag, að afkasta án þess að sýnast starfa, að vinna án þess að þreytast. Þó hann væri menntaður á þeim tíma, sem hin svo kallaða heimsspeki leiddi andann innan um þá tómu bústaði hugsananna, þá heyrðum vèr hèr þá sönnu lífsspeki, sem minnti á þann forna vísdóm og hin guðlegu sannindi, sem eru líf og andi. Það sem gjörði daglegt tal hans svo minnisstætt var það, að það var ávöxtur þess anda, sem hafði gagnskoðað hlutina og gripið hinn innsta kjarna þeirra. Vísdómur var í hjartanu og hjartað á tungunni. Hann þekkti ófullkomnun og breyskleika mannanna, hann vildi næra þá á lyfi sannleikans, og með því styrkja það andlega líf, lífga það dauða, og útrýma því skaðlega. Sannleikurinn var lífsafl þess andlega lífs hjá honum, en sá æðsti sannleikur er rèttvísin, sem gjörir þau rèttu skil á góðu og illu. Sá rèttláti lifir af trú sinni og sèr ekki dauðann.

En oss ber einnig að lofa guð fyrir það, að hann varðveitti auga hans frá gráti. Það

mun sjaldgæft, að á jafnlangri leið mæti jafnfátt sem særir. Og þó tilfinningin væri djúp, eins og hugsunin, þá var eins og honum væri gefið að finna til, án þess að líða. Það voru ekki sorgarský á þessu bjarta enni, það var rósemin sem gjörði það alvarlegt. Gleðin átti hèr stöðugt heimkynni; hún var það andrúms lopt, sem allir önduðu að sèr hèr. En sönn og stöðug gleði getur ekki búið í öðru hjarta en því, sem er í sátt við guð, og sjálfu sèr samkvæmt; hún býr ekki í öðru hjarta en því, sem getur, þegar það vill, hafið sig yfir þetta jarðneska gufuhvolf, þar sem sorgaskýin koma og fara, og mótgangsjelin koma hvort af öðru, þangað, sem sól guðs fagnaðar skín í heiði. Það er sá fulli fögnuður, að halda sèr til guðs og setja vonina til drottins. Þessi framliðni gjörði það. Hann þekkti heiminn og vonaði aldrei of mikils af honum og fekk þess vegna aldrei of lítið; hann áleit að í honum væri allt að miklu leyti jafnt.

En það sem oss einkum ber að þakka guði, er það, að hann varðveitti fót hans frá falli. Í sálu hans var vísdómur, og þessi vísdómur kom fram í orðum hans og gjörðum. Hann gat sagt: eg trúði, þess vegna talaði eg, og hann vildi breyta eins og hann trúði og talaði. Hvað er vert meira þakklætis en að hafa á löngu lífsskeiði ástundað að varðveita góða samvizku fyrir guði og mönnum? Eg meina ekki þá algjörðu fullkomnun í því góða, sem enginn dauðlegur maður getur náð, heldur þann einlæga vilja, að láta guðs vilja búa í hjartanu og birtast í lífinu. Þettað er að ganga fyrir augliti guðs, og það var það, sem mest vakti virðingu allra, sem voru í þessu húsi.

Þessum framliðna var það ljóst, að honum bar ekki einungis að kenna orð sannleikans, heldur og að vera leiðtogi síns safnaðar í öllu lífinu; hann sá, að hann gat bezt vísað veg þess eilífa lífs með því að láta sitt eigið hús vera land lifenda. Hèr mátti sjá margar þær fögrustu dyggðir: yfirráð yfir girndum og tilhneigingum, hógværð í meðlæti, þolinmæði og þrek í mótlæti og þjáningum, blíðlyndi, sáttgirni og tryggð, rèttsýni og ósèrplægni, jafnaðargeð í hverju sem bar að höndum. Hèr var sú látlausa, kristilega góðgjörðasemi við háa og lága. Hèr var ástúð við ektamakann, föðurleg umhyggja fyrir heimilismanninum, trygg vinátta við þá, sem hennar voru verðir, friður og velvild við alla.

En það tekur þegar að dimma í þessum dauðans bústað; ljósið er slokknað, lífið er liðið burt, vèr hljótum að færa hèðan það kulnaða jarðneska skar. Æ, hèr tekur allt enda. Nei, vísdómur og dyggð, trúmennska og kærleiki, það er ekki borið burt af manna höndum, þeir sem það stunda varðveitast frá dauðanum. Moldin hverfur til jarðarinnar, en andinn til guðs, sem gaf hann. Sá trúi þjón fer inn í fögnuð síns herra, og minning hans varir í blessun. Þangað ert þú farinn sæli framliðni; þèr fannst, á þínum síðustu lífsstundum, það vera hátíð upprisunnar, sem þá var í nánd; það var eins og þú finndir, að þú hefðir í síðasta sinn sungið á jörðunni lofsönginn um dýrðina í upphæðum, friðinn á jörðunni og velþóknun guðs og þú mundir syngja þenna lofsöng í æðri bústöðum. Vèr viljum fylgja þínum líkama til guðs húss, sem minnir oss á föðurhúsið í himninum og apturfundina og lífið á því

sanna landi lifenda. Vèr þekkjum kveðju þína, hún er fáorð en innileg blessun yfir vinum þínum, yfir heimilismönnunum, yfir þeim, sem af hjarta vildu gjöra þèr þær síðustu stundir lèttari, yfir öllum þeim, sem tilfinningar hjartans hafa leitt hingað á þessari stundu. Þú sást þessa stund í anda og lýstir henni fyrir mèr. Vèr kveðjum þig allir, sá ungi og sá gamli, sá vitri og sá fáfróði, þurfamaðurinn og hinn auðugi, allir með virðingu, allir í kærleika, allir með þakklæti. Eg verð að kveðja þig sèrstaklega. Þegar eg stóð í fyrsta sinn hrærður á þeirri Zion, þar sem þú hafðir boðað drottins orð, þá bað eg, að þinn andi hvíldi yfir mèr; nú, þegar þú að öllu átt að hverfa mèr og þessum söfnuði, þá fell jeg fram við moldir þínar, og bið guð, að hann gefi mèr líka að ganga fyrir sínu augliti, að hann varðveiti líka mig frá dauðanum, fótinn frá falli, augun frá tárum; tárum — nei, þau verða að renna, þegar eg nú verð að segja: far þú í friði! þú ert farinn í þann eilífa frið, þar vona eg að sjá þig aptur. Amen.

---

# Ræða

## við jarðarför **Árna** byskups **Helgasonar,**

flutt af prófasti og dómkirkjupresti síra **Ólafi Pálssyni.**

Eilífi guð og herra lífsins og dauðans! þú hefir hèr kallað til þín þinn útvalinn verkamann, eptir að hann hafði svo lengi þreytt þetta stundlega veðhlaup; þú hefir tekið hann til þíns eilífa friðar og gefið honum hina sælu hvíld þinna barna — og vèr viðurkennum, hversu það er allt gott, sem þú gjörir. En þegar vèr stöndum viknaðir yfir þessum moldum, minnstu vor þá einnig, drottinn! og hve nær sem þú kannt að kalla oss hèðan, þá leið oss í friði heim í þitt himneska föðurhús. Heyr og bænheyr það í Jesú nafni. Amen.

---

Hið þýðingarmikla fótmál, sem liggur á milli tíma og eilífðar, það er hèr stigið af þeim, sem hafði þreytt hèr lengra veðhlaup, en flestir aðrir. Það lífsins skeið er runnið til enda, sem náði yfir því nær heila öld. Og það eru margar tilfinningar þær, er snerta hina hreinustu og viðkvæmustu strengi hjartna vorra, sem hreifa sèr hjá oss, þar sem vèr erum staddir hjá þeim dauðlegu leyfum, er nú skulu verða færðar til grafarinnar. Og það er svo, ekki einungis af því, að sá, sem hèr er genginn til

hvíldar, hafði átt hèr svo langa dvöl, heldur einkum og öllu fremur af hinu, sem ekki dylst fyrir neinum af oss, að hèr er farinn af heiminum sá guðsmaður, sem er máske hinn fremsti, sem ættjörð vor hefir átt um hinn fyrri hluta þessarar aldar; og það var ekki einungis í þessari stöðu sinni, að hann var hinn mikilsverðasti, heldur prýddu hinn langa lífsferil hans svo margar dyggðir, sem gjörðu hann bæði elskaðan og virtan af öllum þeim, sem á einhvern hátt stóðu honum nær. Hinn mikli árafjöldi hafði liðið yfir hann, og hann stóð hèr eptir, eins og hin aldna eik, sem í vissu falli mátti segja að stæði einmana eptir, því að bæði ástvinir og jafnaldrar höfðu horfið honum, hver eptir annan; þó hann ætti hèr lengri leið eptir, þá var þeirra skeið fyrri runnið til enda, þó um suma þeirra mætti segja að þeir náðu fram á ellidaga. Starfi lífsins var lokið, og fyrir hann var ekki annað eptir, en að þreyja rósamlega eptir lausnarstundinni; og öll æfi hans hafði liðið svo, að hann gat sagt með hinum gamla guðsmanni: *„Lát þú nú, drottinn, þjón þinn í friði fara, þar eð eg hefi fengið að sjá hjálpræði þitt“*, (Lúk. 2, 29.—30.). Og það er fagurt að líta yfir liðinn lífsferil hins aldraða, og sjá hann, þar sem hann með hinu rósama trausti og hinni glöðu von, sem felst í þessu bænarandvarpi, horfir fram á veg alls holds. Hinn langi lífsdagur nálgast sinn endir og hinn blíða kveldroða hefir þegar dregið upp, sem hefir sitt fagra skin frá eilífðarinnar skæra ljósi, og bendir á hinn skínandi morgun, sem tekur við af dauðans dimmu nótt. Þegar hinu langa starfi lífsins er lokið, og þau böndin, sem halda oss við þennan heim, eru

slitin, þá er ekki annað eptir, en að horfa með voninni moti hinni friðsælu hvíld, og því verkkaupi, sem rèttlátur guð hefir geymt þeim, er lengi og trúlega bar hita og þunga þessa jarðneska vinnudags. Sá hefir í öllu fullnægt tilgangi lífsins, sem getur dáið dauða hins rèttláta, því að hann hvílist af sínu erfiði og verk hans verða honum samferða. Þegar hin dauðlega tjaldbúð líkamans er að síðustu orðin niðurbeygð af þunga ellinnar, og sálin, eins og þreyttur vegfarandi, horfir eptir hinu sanna heimkynni sínu, þá er gott að taka þeirri stundu, sem býður heim þangað.

Og þannig var æfikveld hans, hins sæla og hátt heiðraða guðsmanns, sem hèr hefir skilið við heiminn. Hans langa æfiskeið er nú á enda, svo ríkt af innihaldi og af vitnisburðum um það hjálpræði guðs, sem hann sá samferðast sèr á öllum vegi lífsins, að þessi stund leyfir oss einungis lítið eitt að minnast á það. Hinn háæruverðugi drottins þjónn, sem hèr hefir skilið við heiminn, Árni Helgason, stiptprófastur og biskup að nafnbót, riddari af Dannebroge og Dannebrogsmaður, er fæddur í heiminn á Stað í Aðalvík, hinn 27. dag októbermánaðar árið 1777, og þar og í nálægu byggðarlagi ólst hann upp hjá föður sínum, sem var prestur, þangað til hann, 18 ára gamall, var settur til menntunar í hinum lærða skóla, sem þá var í Reykjavík. Þaðan var hann útskrifaður með góðum vitnisburði eptir 4 ára skólaveru. Fór hann þá að því búnu til Skálholts og stundaði þar barnakennslu, þangað til hann árið 1804 sigldi til Kaupmannahafnar háskóla, og tók þar hið fyrsta próf með bezta vitnisburði og ári síðar

hið annað próf, og árið 1807 embættispróf í guðfræði, hvorttveggja með ágætis-einkunn; vann hann þá hið sama ár heiðursverðlaun þau, er heitið var af háskólanum fyrir hina beztu ritgjörð í guðfræði. Árið 1808 var honum veitt Vatnsfjarðar prestakall, en þó hann ári síðar væri prestvígður þangað, þá þjónaði hann aldrei sjálfur því embætti, heldur hafðist við hèr syðra, til þess er hann árið 1811 fluttist að Reynivöllum sem sóknarprestur, og þaðan aptur að 3 árum liðnum til Reykjavíkur dómkirkjukalls, sem hann þjónaði í 12 ár; en eptir það fór hann hingað og var hèr sóknarprestur þangað til árið 1858, er hann fekk lausn og hvíld frá embættistörfum, og hefir hann síðan afþreyð hèr æfikveld sitt. Þegar alls er gætt, þá hefir hann á þessu langa tímabili gegnt fleirum og meira varðandi köllunarverkum, en flestum gefst tækifæri eða endist aldur til, enda voru hæfilegleikar hans til þess meiri en algengt er, og svo, að einungis fáir hafa haft eins mikið til að bera til þess að standa í vandasamri stöðu. Hann var sóknarprestur í 49 ár, prófastur í þessu hèraði í 35 ár, þjónaði byskupsembætti eptir fráfall tveggja byskupa, í hvort skipti meir en árstíma. Ásamt dómkirkjuprestsembættinu þjónaði hann um tíma kennaraembætti við hinn lærða skóla á Bessastöðum, og sjálfur hafði hann lengst af nokkra í sínu eigin húsi, sem hann menntaði í skólanámi, og það ekki allfáa til fullnustu. Í meir en 30 ár var hann forseti hins íslenzka bókmenntafèlags hèr á landi, og allmörg hin fyrstu ár var hann í tölu alþingismanna. Fyrir stöðu sína á allan hátt var hann hvervetna virtur og vel metinn, og honum voru af landsföðurn-

um veitt heiðursmerki hvað eptir annað, þar sem hann var sæmdur bæði riddarakrossi dannebrogsorðunnar og heiðursmerki dannebrogsmanna, stiptsprófasts nafnbót og nú síðast byskups nafnbót. Hann var tvívegis giptur, fyrst árið 1809 Guðnýju Högnadóttur, sem var af góðum ættum undan Eyjafjöllum, en missti hennar eptir 25 ára sambúð, og aptur árið 1835 Sigríði, dóttur hins sæla byskups Hannesar Finnssonar, en hún andaðist að eins tæpum 2 mánuðum á undan honum. Hèr lifði hann síðustu æfiár sín í hinni fegurstu rósemi, sem útbreidd getur verið yfir ellidagana, þangað til lífsfjör hans þverraði smámsaman á skömmum tíma, og dvínaði til fulls hinn 14. dag þessa mánaðar.

Eg finn til þess, hversu lítið hin fáu orð, er mèr verður unnt að tala á þessari stundu, munu geta gjört að því, að halda verðuglega uppi minningu hins mikla manns, sem hèr hefir fallið frá, en hitt get eg sagt með sanni, að það er bæði elska og virðing, sem leggja mèr orðin í munn. Eg ætla að það sè ekki ofhermt, sem þegar er áður á vikið, að þessi sæli framliðni hafi á meðal stèttarbræðra sinna átt einungis fáa jafnoka samtíða sèr, og jafnvel bæði fyr og síðar; enda eru það ekki fáir af hinum yngri samtíðar bræðrum, sem hafa tekið hann eins og til fyrirmyndar sèr og hefir það orðið hin bezta leiðbeining mörgum, þótt ekki hafi þeir náð þeim sporum, er hann gekk á undan þeim. Sálargáfur hans voru að jöfnuði bæði skarpar og liprar, og svo mikið kvað að lærdómi hans, að færri munu hafa verið honum samtíða, sem í því efni komust til jafns við hann. Um þetta vitna rit þau, sem til eru ept-

ir hann; þau vitna öll, ekki einungis um djúpsæan lærdóm, heldur bera þau einnig á sèr þá snilld, sem auðkenndi allt það, er hann gjörði. Og hinu sama lýstu jafnan kenningar hans, sem í sanni minna oss á það, sem spámaðurinn segir: *„sannleikans lögmál var á munni hans, og hann gekk fyrir mèr friðsamlega og rèttilega* (Mal. 2., 6.). Já, hið helga orð framgekk í sanni af vörum hans, eins og evangelíum friðarins, með þeirri rósemi, sem hinum himneska sannleika er verðug, og yfir það var útbreiddur himinblær kærleikans, því að orðið kom frá því hjarta, sem var ríkt af honum; það gekk í gegnum kenningar hans sá andi, sem ómótmælanlega minnti á þann lærisvein, sem drottinn sèr í lagi elskaði, og var svo gegnum þrengdur af hinu helga boðorði kærleikans, sem hans guðdómlegi lærimeistari hafði gefið. Engin kenning gat, þegar þess var rètt gætt, verið meira fræðandi, en hans; og hafi þetta ekki ætíð verið fært sèr svo til nota, sem skyldi, af þeim, er þess áttu að njóta, þá var skuldin ekki hjá honum, sem elskaði svo mjög söfnuði sína og fræddi þá af hinni rósömu, helgu andagipt sinni, heldur var hún hjá þeim, sem ekki kunnu að meta, hvílík guðs gjöf þeim var veitt í því, að eiga slíkan kennifööur sem hann var. Og víst er það, að hverju því sóknarbarni, sem með fullu trausti hèlt sèr til hans, reyndist hann eins og góður faðir. Og hann var elskaður af þeim, eins og einnig af þeim bræðrum sínum, sem stóðu í sambandi við hann eins og yfirstjórnanda þessa hèraðs í andlegum efnum. Hver ráðstöfun hans stjórnaðist jafnt af kærleika og þeirri ráðdeild, sem jafnan mátti treysta, og þegar víðar er litið,

en um þann verkahring, er stóð honum næst, þá sýnir hið stutta yfirlit yfir æfi hans, sem þegar er gefið, hvílíkt traust borið var til ráðdeildar hans.

Þannig var þessi sæli framliðni mikilsverður í hinni opinberu stöðu sinni, en hann var það einnig í hinu daglega lífi sínu, og þar sem hann hrærðist á hinu minna sviði og í umgengni við vini sína og á sínu eigin heimili. Allt viðmót hans var þegar hið ytra svo, að það benti á, hversu mikinn mann hann hafði að geyma Vöxtur og yfirbragð var tignarlegt, svipurinn svo, að mikið kvað að, og augnaráðið lýsti bæði skarpleika og hreinni og blíðri sálu. Glaðvær blíða var aðaleinkennið í dagfari hans, og honum varð ekki skeikað frá þessu, þó svo væri, að áminna þyrfti þá, er undir hann voru gefnir á heimilinu; en það kom eigi að síður opt fram með meiri áhrifum og svo, að minnisstæðara varð, en áminningar þeirra einatt •eru, sem virðast að beita meiri alvörugefni. Við hjú og heimamenn var hann í umgengni sinni eins og alúðarsamur faðir. Vini átti hann marga og það á meðal hinna merkustu manna hèr á landi, og tryggð hans gjörði það að verkum, að þau bönd munu sjaldnast hafa slitnað fyrri en dauðinn skildi. Stilling og rósemi var útbreidd yfir líf hans, og var jafnan hvervetna þar að finna, sem hann var. En það fylgdi einnig með því, að hann varð harla lítið snortinn af hinum einatt órósömu hreifingum, sem hver einn, og ekki sízt sá, sem lifir eins lengi og hann, hlýtur að verða var við á leið lífsins. Það mátti ætíð um hann segja, að hann stefndi rósamur

yfir ólgusjó þessarar veraldar heim að hinni eilífu höfn friðarins.

Þessi sæli framliðni var, eins og áður er sagt, tvívegis giptur, og hann naut í því hlutfalli þess láns, sem fylgdi honum alla æfidaga; því að báðar konur hans unnu honum af hreinni tryggð, og einkum gafst henni, sem svo skömmu á undan honum fór hèðan, tækifæri til að sýna það í verki, þegar hann þurfti þess við og ellinnar dagar voru orðnir svo margir· En það gat þá og naumast verið ástúðlegri ektamaki, en hann, enda var öll sambúðin svo, að varla mun nokkru sinni hafa dregið yfir hana hið minnsta ský. Engill friðarins var þar jafnan með á samleiðinni, og það bendir á hve sælir þeir samfundir hljóta að hafa verið, sem nú eru orðnir. Hann, sem þannig átti bæði langa og farsæla æfi, kenndi aldrei sjálfur á föðurgleðinni, en þeir voru ekki fáir, sem hann af manndyggð sinni gekk í föður stað, og það sumpart með öllu vandalausir; og enn voru það aðrir, sem hann bæði með vilja og verki styrkti til þess, að komast farsællega fram á veg lífsins, og eg má með þakklæti telja mig meðal þeirra. Þetta var einatt gjört svo, að fáir höfðu af því að segja, og með líkum hætti lèt hann marga velgjörð í tè, og það svo, að sá einn vissi það, sem endurgeldur þau góðverk, sem í guði eru gjörð. Og það mátti með sanni segja, að hvað hann gjörði í þessu, það gjörði hann af hjarta, því að eins og hann var glaður með glöðum, svo komst hann við af böli annara og bætti fúslega úr því, enda hafði forsjónin blessað hann svo, að hann var gjarnast fær um að gjöra það. Þessa mun lengi minnzt verða af mörgum, en hinir eru víst enn fleiri,

sem hafa tekið með sèr þá minningu hèðan, og fram fyrir hann, sem hefir látið oss það sagt í orði sínu, að slíkar fórnir þóknist honum vel.

Það skeið lífsins, sem hèr er til enda runnið, var bæði fagurt og langt, og það var eins og bæði elli og dauði ættu við örðugleika að stríða, að leggja lífsfjör hans að velli. Allt fram á hina síðustu missiristíð hafði fjöldi daganna aðeins lítið náð að beygja hann, og sálargáfurnar voru í sínu fulla fjöri, svo að segja til hinna síðustu stunda. En þegar allt benti til, að hin síðasta kveldstund væri þegar fyrir hendi, þá nálgaðist hann hana með hinni sömu rósemi, sem hafði verið honum eiginleg um alla daga æfinnar. Hann hafði fetað stillt um hina löngu leið lífsins, og ganga hans breyttist eigi heldur, þegar stíga átti hið síðasta fótmál. Himinfriðurinn hvíldi einnig yfir hinum síðustu sporum hans. Guðs hjálpræði hafði jafnan fylgt honum, og það yfirgaf hann ekki til enda. Hann hafði lifandi trú á miskunnsemi guðs, og lèt sèr það opt um munn fara við áhrifamikil atvik, sem fyrir komu, að hún ein kynni eigi að bregðast. Og þetta var það akkeri, sem hann víst ekki sleppti, þegar mest reið á.

Þó þessi sæli framliðni væri fyrir alllöngum tíma síðan hrifinn frá framkvæmdum lífsins, þá verður fyrir oss mörgum tómt og eyðilegt skarð þar sem hann var. Allir, sem þekktu hann — en þeir voru margir — þekktu til þess, hve mikils hann var verður, og hinir síðustu dagar hinnar háu elli, sem hann af þreyði í kyrrð, voru eins og fyrirmynd um það, hvernig æfikveldið á að vera. Það var ætíð fagurt að umgangast hann, sem, þó stigið væri

fram á grafarbakkann, virtist enn þá lítið hafa misst af ungdómsfjöri sálarinnar. En enginn dagur er svo langur, að hann ekki hafi eitt kveld, ekkert ágæti, sem vèr njótum, að það ekki að síðustu hverfi oss. Og svo er einnig hann farinn hèðan, sem í flestu var eins og ljós þeirra tíma, er hann lifði á. Fósturjörðin minnist, þar sem hann er, einhvers hins bezta sonar síns; margir vinir hafa þegar fagnað honum á landi hinna lifandi, en margir eru og þeir, sem enn lifa og geyma í blessun minningu hans; það gjöra þeir, sem nutu svo mikils góðs af manngæzku hans, bæði ættmenn og aðrir, er stóðu honum nær. En æðri og eilíf blessun er yfir hann lögð, þar sem hann nú er, á landi lifandi manna. Sú dyggð, sem skartaði hèr svo fagurt, hún skín nú í ljósi hinnar eilífu dýrðar. Sálin, sem um hèrvistardagana hèlt sèr svo stöðugt í skjóli guðs hjálpræðis, hefir nú fundið það að fullu, og tekið eilífa hvíld á ástarörmum hins himneska föður og sameinazt hinum ástkæru, sem áður voru farnir. Og guði sè lof, sem hefir veitt þetta hinum útvalda þjónustumanni sínum og gefið honum sigurinn fyrir Jesúm Krist. Amen.

# Ræða

## við jarðarför **Árna** byskups **Helgasonar,**

flutt af prestaskólakennara sira **Helga Hálfdánarsyni.**

Náð og friður af guði föður og drottni vorum Jesú Kristi, sè og veri með yður öllum. Amen.

---

*„Þessi lærisveinn deyr eigi“*. (Jóh. 21, 23.). Þannig var orðrómur sá, er á tíma postulanna barst út meðal hinna kristnu um lærisveininn, „sem Jesús elskaði“, þann lærisvein, er hvílt hafði við brjóst Jesú, þá er hann hèlt með lærisveinunum hina síðustu máltíð fyrir dauða sinn, Að vísu var sú ímyndun, að þessi mikli lærisveinn drottins og lærifaðir kristninnar, Jóhannes guðspjallamaður, mundi eigi deyja, heldur verða lífs á jörðunni allt til dýrðlegrar endurkomu hins heilaga ástvinar hans, — að vísu var þessi ímyndun byggð á misskilningi á orðum Jesú; því að Jóhannesi var ætlað að deyja hèðan engu síður en hinum postulunum, þótt líf hans hèr á jörðu yrði lengra en allra hinna. En þótt orðrómur þessi væri eigi sannur í þeim skilningi, sem orðin voru töluð í, voru orðin sjálf þó fullkomlega rètt og sönn

í öðru tilliti. Þau voru eigi að eins sönn um þenna eina lærisvein drottins Jesú, heldur eru þau sífellt sönn um hvern þann lærisvein Jesú fyr og síðar, sem í trú og kærleik hvílir við brjóst frelsara síns, og orðinn er fyrir trúna eitt með honum, eins og hann er eitt með föðurnum. Um hvern slíkan má með sönnu segja: „Þessi lærisveinn deyr eigi“. Þeir, sem fyrir lífskrapt trúarinnar eru orðnir rèttar lifandi greinar á hinu sanna lífstrè, drottni vorum Jesú Kristi, þeir deyja eigi, meðan þeir lifa hèr í heiminum, og þeir deyja eigi, þá er þeir deyja burt úr heiminum. Þeir deyja eigi, meðan þeir lifa í heimi þessum. Um alla aðra en þá, sem í trúnni hvíla við brjóst frelsarans Jesú, má segja, að þeir sèu sífellt að deyja. Líf þeirra, skoðað frá æðra sjónarmiði, er ekkert sannarlegt líf, heldur sífelldur sannarlegur dauði. Hinir þar á móti, sem sagt geta: *„það, sem eg nú lifi í holdinu, það lifi eg í trú guðs sonar“* (Gal. 2, 20.), hinir sönnu lærisveinar, sönnu ástvinir Jesú, þeir lifa sönnu lífi, einnig meðan þeir dvelja hèr í líkama þessa dauða og í heimi dauðlegleikans; því að *„það, að lifa, er þeim Kristur“*. (Fil. 1, 21.). Og þá er þeir deyja burt úr heimi þessum, deyja þeir eigi heldur. Þeim einum, sem eigi lifa í trúar- og kærleikssamfèlagi við guðs son, er dauðinn sannarlegur dauði. Sanntrúuðum lærisveinum Jesú er sjálfur dauðinn enginn dauði, heldur er hann þeim sælurík sigurför og sannur lífsvegur, vegur, sem leiðir þá á æðra lífs-stig. Þá er þeir eru dánir, eru þeir, fyrir hann, sem er upprisan og lífið, farnir frá dauðanum til lífsins. Engin hugsun er því rèttari en sú, að hugsa sèr dauða þeirra eigi sem dauða, heldur sem

fæðing, — fæðing til hins sanna, algjörða, eilífa lífs.

Orsökin til þess, að orðin: „þessi lærisveinn deyr eigi“ koma mèr í hug við þetta tækifæri, er eigi að eins sú, að sá, sem hèr er við oss skilinn, var einn af hinum sönnu lærisveinum Jesú Krists, sem í trú og kærleik hvíla við brjóst frelsara síns, og sem um má segja með fyllsta rètti: Þeir deyja eigi. Orsökin til þess er líka sú, að eins og eg hafði orðið þess var af orðum hins framliðna sjálfs, að sá af lærisveinum drottins, sem hann elskaði sèr í lagi, var lærisveinninn, sem Jesús elskaði sèr í lagi, eins virtist mèr af viðkynningu minni við hinn framliðna, að hann hefði sjálfur það til að bera, er minnti á þenna lærisvein drottins. Eptir þeirri hugmynd, sem eg gjöri mèr um lunderni og hjartalag lærisveinsins, sem hvíldi við brjóst drottins, og eptir áliti mínu á lunderni og hjartalagi þess Jesú lærisveins, er hèr hvílir nú í faðmi dauðans, virðist mèr, að eg hafi ástæðu til að segja um hinn framliðna: Hèr var maður með Jóhannesar lund og Jóhannesar hjarta. Kærleikur og trúfesti, friðsemi og rósemi, alvörugefni, sameinuð ástúðlegu blíðlyndi, djúpsæ vizka í búningi helgrar einfeldni, — þetta eru eiginlegleikar, sem allt það, er ritað finnst um Jóhannes postula, og allt það, er hann hefir sjálfur ritað, virðist bera vott um. Og einmitt þetta virtist mèr einkenna hinn framliðna, sem hèr er frá oss kallaður. En eigi að eins þessum eina, heldur og öllum sönnum lærisveinum Jesú Krists var hann líkur í því, að hann elskaði frelsara sinn af hjarta, mat hans lærdóm hina æðstu speki, hans friðþæging og endurlausn

hina æðstu velgjörð, það, að sameinast honum hið æðsta hnoss. „Þessi lærisveinn deyr eigi“ eru þess vegna orð, sem í sinni rèttu og dýpstu þýðingu eiga heima um hann. Fyrir hann, sem lèt lífið fyrir oss og er oss lífið, er þessi framliðni vinur vor eigi dáinn, þótt hann sè sofnaður hèðan, heldur inn genginn til æðra og fullkomnara lífs.

En það er eigi að eins í þessu tilliti, að orðin: „Þessi lærisveinn deyr eigi“ eiga hèr við. Vèr getum og með fyllsta rètti heimfært þessi orð upp á hinn framliðna í öðrum skilningi. Að deyja köllum vèr venjulega það, að yfirgefa þetta jarðneska, hverfa burt úr heimi þessum til annarar tilveru. Þessi framliðni merkismaður hefir nú að vísu yfirgefið þennan heim og hin jarðneska vegferð hans tekið enda. En hann er þó engan veginn að öllu leyti hættur að lifa hèr meðal vor, engan veginn algjörlega horfinn þeim, er elskuðu hann, engan veginn alveg búinn að yfirgefa hið jarðneska föðurland sitt, er hann var til svo mikils gagns og sóma um hina löngu lífdaga sína.

Þessi lærisveinn Jesú Krists, þessi framliðni elskaði vinur vor deyr eigi. Minning hans lifir og mun lifa í blessun í hjörtum vor allra, í hjörtum allra þeirra, sem höfðu átt hann að eða kynnzt honum. Hvorki ekkja nje börn syrgja hèr við nábeð hans. Þótt seinni kona hans væri töluvert yngri en hann, hagaði guð því svo af gæzku sinni og speki, að hún þurfti eigi að sjá hann hverfa hèðan á undan sèr, heldur var hèðan kölluð fáum vikum fyr en hann. En að eins fáum vikum fyr; því að eins og himnafaðirinn auðsýndi henni þá gæzku, að hlífa henni við þeim harmi, sem það hefði valdið

henni, ef maður hennar hefði verið hèðan kallaður á undan henni, eins vildi hin sama himneska föðurgæzka, að sá sorgartími yrði honum sem styttstur, er byrjaði fyrir hann við fráfall hennar. Og börn, er hinn framliðni ætti sjálfur, syrgja hèr eigi heldur. Guði þóknaðist eigi að láta honum hlotnast það, að upp ala eigin börn, þótt það væri eitt af einkennum hans ástríka hjartalags, að hann var sannur barnavinur, hafði jafnan hina mestu ást á börnum og yndi af þeim, og var manna bezt fallinn til að fræða börn. Ekkja eða börn syrgja hèr eigi; en hèr eru þó margir, er lengi munu sakna hans, sem hèr er burt kvaddur og sífellt munu með elsku og þakklátsemi geyma minning hans í hjörtum sèr. Það munu gjöra hin mörgu eptirlifandi fósturbörn hans, er hann hafði öllum reynzt hinn bezti og ástríkasti faðir; það munu gjöra allir eptirlifandi ættingjar og vandamenn hans, sem allir elskuðu hann og álitu hann með rèttu hinn mesta sóma ættar sinnar; það munu gjöra hinir mörgu eptirlifandi, sem fyr eða síðar hafa verið hjú hans, og sem allir munu telja sèr það lán, að hafa átt slíkan húsföður; það munu gjöra hinir mörgu eptirlifandi lærisveinar hans, er notið hafa hinnar lipru og ljósu kennslu hans; það munu gjöra hinir mörgu eptirlifandi vinir hans, er hann sýndi öllum stöðuga ást og tryggð til dauðans; það munu gjöra hinir mörgu eptirlifandi, er hafa uppbyggzt af heyrn og lestri hinna ágætu kenninga hans, notið hinna hollu og viturlegu ráða hans, orðið aðnjótandi hinnar hagkvæmu hjálpar hans; það munu — í einu orði — allir þeir gjöra, sem hlutu það lán að kynnast honum. Allir, sem hafa þekkt hann rètt, þekkt lærdóm hans og gáfnasnilld,

hreinskilni hans og hjartagæzku, hafa eigi getað annað, en bæði virt hann sem einn hinu mesta mann, og elskað hann sem einn hinn bezta mann. Þar af leiðir, að hjá öllum þessum mun, meðan þeir lifa, minning hans lifa í heiðrandi og elskandi hjörtum. Hann hafði til að bera svo mikið virðingarvert, svo mikið elskuvert, svo mikið, sem einkennir mikinn mann og góðan mann, já, svo mikið fágætt og frábært, að enginn sá, er við hann hefir kynnzt, getur gleymt honum. Þótt hann sè nú látinn, lifir hann og mun lifa í minningunni hjá þeim öllum.

Þessi lærisveinn Jesú Krists, þessi ágæti afbragðsmaður deyr eigi. Orðstír hans lifir og mun lifa, meðan ættland hans byggist og hin íslenzka þjóð man til sín sjálf. Svo lengi sem íslenzkir menn muna til þess, er verið hefir ættjörð þeirra til heilla og þjóð þeirra til sóma, munu þeir muna og með virðingu nefna nafn þessa fræga merkismanns. Meðan Ísland er uppi, mun hann talinn verða meðal afbragðsmanna þess. Það má með sanni um hann segja, að hann var eigi að eins prýði stèttar sinnar, heldur og sómi tíðar sinnar, ljós aldar sinnar. Gáfnaljós hans og lærdómsljós var í sjálfu sèr skært og fagurt, pund hans mörg og mikil; og hið fagra ljósið var hèr eigi sett undir mæliker, hin miklu pundin eigi grafin í jörðu nè látin liggja ónotuð og ávaxtarlaus. Það er kunnugra en frá þurfi að segja, hvað mörgum hann kenndi skólalærdóm ýmist að nokkru eða öllu leyti, og hve mikinn þátt hann hefir átt í því að breiða út bæði vísindalega og alþýðlega menntun á landi voru. Eins og hann var sem prestur ágætur kennimaður, og á sinni tíð fyrirmynd annara í því, eins var hann afbragðs-

kennari í hverju öðru, sem hann kenndi. Það, sem gjörði kennarastörf hans svo notadrjúg og affarasæl, og lærdóminn svo auðveldan þeim, er nutu tilsagnar hans, var hin ljósa hugsun, og lipra, óbrotna aðferð hans. En það, sem hann afrekaði þjóð sinni til gagns, var eigi það eitt, að hann fræddi svo marga bæði sem prestur og sem vísindamaður. Hann hafði auk þessa opt og löngum önnur störf á hendi, er hann leysti af hendi með hinni sömu snilld til beztu nota fyrir land og lýð. Ættjörð vor á honum þannig mikið að þakka, og ávextir þess, er hann vann, munu lengi lifa, en orðstír hans aldrei deyja, meðan Ísland er byggt íslenzkum mönnum.

Þessi lærisveinn Jesú Krists, þessi lærifaðir Íslendinga, deyr eigi. Andi hans lifir og mun lifa meðal vor og niðja vorra. Að vísu er hinn ódauðlegi andi hans nú skilinn við hinn jarðneska líkama og þennan stundlega heim. En eigi að síður getum vèr sagt: Andi hans lifir hèr og mun lifa hèr um ókomnar aldir. Hann lifir og mun lifa í þeim ritum hans, sem út breidd eru um þetta land, sèr í lagi í hinum ágætu helgidagaprèdikunum hans, sem verið hafa og verða munu svo mörgum til andlegrar uppbyggingar. Hinn ágæti kennari er eigi hættur að kenna oss, þótt vegferð hans vor á meðal sè á enda; hann er eigi hættur að tala til þjóðar sinnar orðum uppfræðingarinnar, áminningarinnar og huggunarinnar, þótt rödd hans heyrist hèr eigi framar. Orð hans lifa og munu lifa meðal Íslendinga, og andi hans í þeim.

Vèr höfum þannig í mörgu tilliti rètt til að segja um þann, sem hèr er látinn: „Þessi

lærisveinn deyr eigi“. Hann lifir enn og mun lifa eigi að eins meðal útvaldra guðs í æðra heimi, heldur og — í öðrum skilningi — hèr á meðal vor. Hèr er því eigi sorgarefni. Þótt vèr eigum hèr á bak að sjá einum mesta manni lands vors, þurfum vèr eigi og eigum vèr eigi að syrgja við þetta tækifæri. Það, sem oss við þetta tækifæri ber öllum að gjöra, einnig þeim, sem voru hinum framliðna nákomnastir, er að gleðjast og þakka. Það hefir eins og alkunnugt er, þrávallt að borið, að ættjörð vor hefir hlotið að sjá á bak hinum mestu og beztu sonum sínum, þá er þeir voru að eins nýbyrjaðir eða stutta stund búnir að vinna henni til heilla og sóma. Þetta, sem svo opt hefir verið sárt sorgarefni á þessu landi, á hèr eigi heima. Hann, sem hèr liggur liðinn, var eigi kallaður burt frá hinu fagra og nytsama æfistarfi sínu nýbyrjuðu eða að eins hálfunnu; honum veittist að halda því áfram svo lengi sem framast er auðið; því að hann náði svo háum aldri, sem að eins mjög fáum hlotnast, og gat lengur starfað en flestum auðnast. En þar sem vinnutíminn var orðinn svo langur, aldurinn svo hár, var honum sannarlega þörf að hvílast. Öllum, sem elskuðu hann, má því vera það gleði-efni, að hann hefir nú fengið þá hvíld, sem hann þurfti og þráði. Að vísu hlýtur sorg og söknuður nú að búa í húsi hans, sem allt í einu er orðið bæði föður- og móðurlaust, og það er eðlilegt, að þeim, er þar dvelja nú, og hafa svo lengi átt þar bezta samastað, undir hendi hinna framliðnu merkishjóna, hafi fundizt þessi jólahátíð vera döpur hryggðarjól. En hversu gleðileg má þeim þó vera tilhugsun þess, að hinum elskuðu húsbændum

þeirra eru þetta orðin sannarleg sælujól, og líf þeirra nú orðið sönn og hrein jólagleði, sem aldrei tekur enda. En ef oss öllum ber, eigi að hryggjast, heldur jafnvel að gleðjast við þetta tækifæri, þá ber oss einnig að þakka. Fyrst og fremst ber oss að þakka góðum guði það, að hann gaf ættjörð vorri þenna afbragðsmann henni til heilla og heiðurs og lèt hana njóta hans svo lengi. En einnig hinum framliðna sjálfum ber oss að þakka. Oss ber öllum að þakka honum það, að hann var föðurlandi sínu og voru svo þarfur og lèt svo mikið gott af sèr leiða. En auk þess, sem allir Íslendingar eiga honum að þakka, eiga margir einstakir honum mikið að þakka. Þeir söfnuðir, sem hann fræddi í sáluhjálparefnum, eiga honum mikið að þakka; aðrir, sem hann menntaði og fræddi, eiga honum mikið að þakka, og margir fleiri hafa mestu ástæðu til að þakka honum og blessa hann. Meðal þessara, sem eru honum um ást og þakklæti skyldugir, er eg og þeir, sem mèr eru nákomnastir. Þegar áður en eg flutti hingað í sambýli við hann hafði hann sýnt mèr ástúð og einlæga velvild, og meðan eg dvaldi hèr á þessu heimili, auðsýndi hann mèr og mínum allt hið bezta. Já, fyrir mína og minna hönd finn eg mèr skylt að þakka þèr, sæli framliðni, og þinni ástkæru konu, sem er hèðan horfin skömmu á undan þèr. Góður guð launi ykkur báðum fyrir mig og mína, og gefi okkur öllum aptur að sjást og saman að búa hjá sèr. Blessuð, eilíflega blessuð, sèuð þið bæði, framliðnu heiðurshjón.

Til að þakka, höfum vèr allir ástæðu við þetta tækifæri, en eins og jafnan ella, höfum vèr einnig ástæðu til að biðja. Fyrir föður-

landi voru, fyrir vorri fátæku og fámennu þjóð og fyrir hinni íslenzku kirkju, höfum vèr allir ástæðu til að biðja við þetta tækifæri, en engu síður til að biðja hver fyrir sjálfum sèr. Vèr snúum því hjörtum vorum til þín, himneski faðir, og biðjum þig af alhuga í Jesú nafni: Líttu í náð og miskunn til hinnar lítilmótlegu þjóðar, sem þetta land byggir; sendu henni marga líka honum, sem þú hefir nú heim kallað, til að efla tímanlegar og andlegar heillir og dýrðina þíns heilaga nafns vor á meðal. Gefðu oss þá sem flesta, er sèu ættjörð vorri til gagns og sóma; gefðu oss þá sem flesta, er sèu verkfæri í þinni hendi kirkju Krists til uppbyggingar vor á meðal. Og gefðu oss öllum hverjum fyrir sig og hverjum í sinni stöðu, að fylgja dæmum þeirra, er þèr hafa reynzt trúir, að berjast góðri baráttu, og verja vel þeim náðartíma, sem þú úthlutar oss. Veittu oss öllum umfram allt, að aðhyllast í trú og kærleika höfund og fullkomnara trúarinnar, Jesum Krist, veittu oss öllum að lifa og deyja í trúnni á hann og elskunni til hans, svo að um oss verði sagt hvern fyrir sig af englum þínum og útvöldum, þá er þú lætur kalla oss hèðan: Þessi er Jesú elskaður lærisveinn; Þessi lærisveinn deyr eigi. Amen.

---

# Erfiljóð

eptir **Árna** byskup **Helgason,**

ort af **Matthíasi Jochumssyni.**

Nú er að Jólum
Náðarmildum
Banablæum
Barn guðs reifað:
Nú kveða aldir
Hið æru krýnda
Árna höfuð
Orpið moldu.

Byskups höfuð,
Því er bragna engi
Göfgara leit
Nè góðmannlegra;
Dáinna dýrðlinga
Dróttir aldri
Báru bjartari
Bein að skríni.

Sá var bragningur
Barn að aldri,
Er tvær gyðjur
Til hans komu;
Önnur bað hann ganga
Með öldungum,
Vígðan vísdómi,
Og veröld siða.

Önnur bað hann
Með börnum ganga,
Sannan og sælan
Í sakleysi;
Kystu sveins höfuð
Helgar dísir;
Skein svo barnsblíða
Hjá bjartri vizku.

Breyskrar bernsku
Frá brestum dó
Ungur að aldri,
Varð því aldrei gamall:
Hlýddi guði,
Hlýddi skynsemi
Barn að aldri,
Varð því barn vitur.

Lauk svo æfi
Árni byskup,
Sem þá sólblíður

Sumardagur
Deyr í norðri
Í draumsælu
Meginmærrar
Morgungyðju.

Hverir deya?
Dáðlausir menn,
Heimskir, hugspilltir,
Og Hel gista.
Hverir lifa?
Lýðir dáðrakkir —
Sönn guðsbörn
Sjá ei dauðann.

# Grafskript

yfir **Árna** byskup **Helgason,**

ort af prófasti og dómkirkjupresti síra **Ólafi Pálssyni.**

Hnè hèr að móður Öðlingur aldinn,
Mæru skauti Aldar prýði

**Árni** byskup **Helgason.**

Hann var fæddur 27. Október 1777,
útskrifaður úr Reykjavíkur skóla árið 1799,
tók embættispróf í guðfræði með afbragðs-
orðstír *(Laudabilis et qvidem egregie)* við
Kaupmannahafnar háskóla árið 1807,
var vígður til prests árið 1809,
giptist 5. d. Október s. á.
**Guðnýju Högnadóttur,**
og annað sinn 15. d. Ágústm. 1835
**Sigríði Hannesdóttur,**
þjónaði prestsembætti um 49 ár,
var prófastnr í Kjalarnessþingi 35 ár,
gegndi tvívegis byskupsembætti um lengri tíma,
andaðist 15. d. Desemberm. 1869.

---

Lýsti þar lengi
Lýða sjónum
Lærdóms og snilldar
Ljósið skæra,
Og kenning fögur
Fæddi sálir
Af kærleiks helguð
Himinkrapti.

Bjuggu þar saman
Í brjósti hreinu
Sálarstyrkur
Og sálarblíða,
Gleði með glöðum
Af geði ljúfu;
Viðkvæmni mjúk
Við mæddra raunir.

Muna mun lengi
Mög sinn bezta
Móðurjörð sorgar-
Sveipuð -faldi
Og minning menntar
Meginfögur
Í bljúgum geymast
Bræðrahjörtum.

---

Svo leið til kvelds hinn langi dagur,
Er ljósin dyggða prýddu skær;
En aptur ljómar indæll fagur
Eilífðar morgunroðinn tær.
Í birtu hans um eilíf ár.
Mun ætíð skína dyggðin klár.

# Ættartala

## Árna byskups Helgasonar,

samin af **Páli** stúdent **Pálssyni.**

Foreldrar Árna byskups voru *Helgi* (f. 1731 † 1816, 75 ára) prestur, seinast að Eyri í Skutulsfirði og *Guðrún* Árnadóttir.

Faðir Helga prests var *Einar* lögrèttumaður í Þrándarholti, sonur Hafliða prests í Hrepphólum — dáins 1773, þá hann hafði 3 um nírætt — og Katrínar Eiríksdóttur.

Systkyni Einars lögrèttumanns voru Bergsveinn prestur í Grunnavík † 1762, faðir Jóhanns prests í Garpsdal, og Katrín, er giptist Eyjólfi Þórðarsyni föður Markúsar prests á Söndum og Þorbjargar, móður Eyjólfs dannebrogsmanns í Svefneyjum Einarssonar.

Faðir *Katrínar*, móður Einars lögrèttumanns og kvinnu Hafliða prests, var Eiríkur prestur á Lundi † 1706, bróðir Einars fornritafræðings og um tíma lögsagnara í Árnessýslu † 1695, Eyjólfssonar, Jónssonar.

Móðir þeirra bræðra Einars prests og Einars lögrèttumanns var Katrín Einarsdóttir, Teitssonar í Ásgarði, Eiríkssonar samastaðar, Guðmundssonar á Hafurshesti í Önundarfirði,

Andrèssonar á Felli, Guðmundssonar ríka, Arasonar á Reykhólum.

Móðir *Eiríks* í Ásgarði var Þrúður, dóttir Þorleifs riddara og hirðstjóra, sonar Björns hirðstjóra Þorleifssonar og Ólafar Loptsdóttur ríka.

Foreldrar *Hafliða* prests voru Bergsveinn lögrèttumaður í Gullbringusýslu, Sólmundarsonar, Ívarssonar á Sandgerði og Þóra dóttir Bergsveins prests á Útskálum † 1638, bróður Guðmundar háskólagengins prests að Staðastað † 1648, Einarssonar prests að Útskálum † 1605, Hallgrímssonar, Sveinbjarnarsonar officialis á Múla í Aðalreykjadal † 1590 84 ára, Þórðarsonar og Þórdísar Finnbogadóttur gamla að Ási í Kelduhverfi, Jónssonar Langs.

Bræður Einars prests á Útskálum voru þeir: *a*, Þorlákur prestur Hallgrímsson á Staðarbakka, faðir Guðbrandar byskups. *b*, Guðmundur bóndi í Gröf, faðir Pèturs hringjara föður Hallgríms prests Pèturssonar. *c*, Þorkell, faðir Odds prests á Hofi, föður Bjarna sýslumanns á Bustarfelli. *d*, Gamalíel prestur á Stað í Hrútafirði, faðir Bjarna, fyrst skólameistara að Hólum, og síðan prests að Grenjaðarstað, og *e*, Gissur prestur Hallgrímsson[1] á Staðarbakka, faðir sira Jóns á Múlastað, sira Jóns á Staðarbakka, sira Pèturs í Vestmannaeyjum og sira Arngríms í Viðvíkurþingum.

Móðir *Helga* prests var Sigríður dóttir Jóns lögrèttumanns á Núpi í Hreppum, Magnússonar í Bræðratungu († í Kaupmannahöfn

---

[1]) Sumir, þar á meðal Hannes byskup, telja Gissur prest á Staðarbakka ekki son Hallgríms, heldur sonar hans Gamalíels, áðurnefnds prests að Stað í Hrútafirði.

1707), Sigurðssonar og annarar konu hans, Bergljótar Guðmundsdóttur eldra á Eyvindarmúla, Jónssonar samastaðar, Eyjólfssonar samastaðar, Eiríkssonar á Höfðabrekku, Eyjólfssonar.

Móðir *Bergljótar* var Guðríður Magnúsdóttir, Þorsteinssonar sýslumanns í Skaptafellssýslu og Þykkvabæjar klausturhaldara, Magnússonar í Stóradal, Árnasonar, Pèturssonar, Loptssonar, Ormssonar á Staðarhóli, launsonar Lopts ríka Guttormssonar.

Móðir *Magnúsar* á Þykkvabæ, kvinna Þorsteins sýslumanns, var Guðríður, dóttir Árna prests á Holti undir Eyjafjöllum, Gíslasonar byskups, Jónssonar og Hólmfriðar Árnadóttur frá Hlíðarenda.

Móðir *Eiríks* á Höfðabrekku og kvinna Eyjólfs Einarssonar lögmanns, Eyjólfssonar, var Helga Jónsdóttir biskups Arasonar. En kvinna Einars var Hólmfríður dóttir Erlends Erlendssonar lögmanns.

Hálfbræður Sigríðar (samfeðra), voru Þórður prestur á Hálsi og Guðmundur prestur á Krossi.

Móðir *Magnúsar* í Bræðratungu var Sigríður dóttir Odds Þorleifssonar og Guðrúnar Sæmundsdóttur í Bolungarvík, Árnasonar á Hlíðarenda.

Móðir *Jóns* lögrèttumanns á Núpi var Þórdís dóttir Jóns byskups Vigfússonar og Guðríðar Þórðardóttur prests í Hítardal[1], Jónssonar prests samastaðar, Guðmundssonar.

Bræður Þórdísar voru þeir Þórður prestur á Staðastað og Gísli, um tíma heyrari á Hólum, seinna bóndi í Máfahlíð, faðir Magnús-

---

[1]) Síra Þórður var sá fyrsti Íslendingur, sem tók embættispróf við háskólann í Kaupmannahöfn.

ar amtmanns, föður Sigríðar, kvinnu Ólafs stiptamtmanns Stephánssonar.

Móðir *Guðríðar*, kvinnu Jóns byskups, var Helga, dóttir Árna lögmanns Oddssonar, byskups Einarssonar.

Móðir *Jóns* prests í Hítardal var Guðríður, dóttir Gísla lögmanns, Þórðarsonar lögmanns og Ingibjargar Árnadóttur sýslumanns á Hlíðarenda, Gíslasonar.

Systur Þórðar prests Jónssonar voru þær: *a*, Kristín, er átti Sigurð lögmann Jónsson, föður 1., Guðmundar sýslumanns á Álptanesi, föður Þórunnar kvinnu Magnúsar amtmanns Gíslasonar og Eggerts á Álptanesi, föður Jóns sýslumanns á Hvítárvöllum, föður lektors Johnsens; 2., Jóns sýslumanns í Borgarfjarðarsýslu, föður Jóns prófasts í Stafholti, föður Jóns sýslumanns á Móeiðarhvoli, föður byskupsfrúar Valgerðar og 3., Ragnheiðar kvinnu Sigurðar lögmanns Björnssonar, föður Sigurðar sýslumanns í Árnessýslu, föður Sigurðar landþingsskrifara á Hlíðarenda, föður Brynjólfs prests á Útskálum. *b*, Ragnheiður kvinna Sigurðar lögmanns Björnssonar, og *c*, Þórunn, er giptist Sigurði presti í Stafholti, Oddssyni byskups.

*Guðrún* móðir Árna byskups, var laungetin dóttir Ólafs á Eyri í Seyðisfirði, Jónssonar, við Elízabet Þórðardóttur smiðs, Halldórssonar, Helgasonar.

Móðir *Þórðar* smiðs var Elízabet, dóttir Ísleifs í Saurbæ, sonar Eyjólfs Halldórssonar samastaðar og Solveigar Árnadóttur á Hlíðarenda.

Hálfsystkyn sira Árna í Gufudal (samfeðra), voru: 1., Þórður stúdent í Vigur. 2., Jón Vicelögmaður. 3., Ólafur (Olavius) kammersekri-

teri að nafnbót og tollari, fyrst á Skaganum síðan á Mariager í Jótlandi. 4., Ingibjörg, fyrsta kvinna Jóns prests Sigurðssonar á Snæfjöllum, síðar á Rafnseyri, föður: *a*, Sigurðar prests að Rafnseyri, föður þeirra Jens rektors og Jóns archiv-secretera, og *b*, Einars stúdents og síðar kaupmanns í Reykjavík, föður þeirra Guðmundar prests að Arnarbæli í Ölfusi og Ólafs prests að Stað á Reykjanesi, Ingibjargar kvinnu Jóns Sigurðssonar í Kaupmannah. og Jafets gullsmiðs.

Systkyni *Helga* prests, þau er þroskuðust, voru:

1. Guðrún eldri, önnur kvinna Þorvalds prófasts Böðvarssonar. Þeirra börn voru:
   a, Böðvar prófastur og prestur, seinast að Melstað.
   b, Giríður, kvinna Pèturs prests á Ólafsvöllum Stephanssonar.
   c, Kristín, átti Pál prest að Ásum í Skaptártungu Ólafsson, og við honum Ólaf prófast og prest, seinast að Melstað.
   d, Rannveig, giptist Jóni bónda í Framnesi Jónssyni.
2. Guðrún yngri, kvinna Sæmundar prests á Útskálum Einarssonar, Þeirra börn voru:
   a, Einar prófastur og prestur, seinast að Stafaholti.
   b, Snorri prestur að Desjarmýri.
   c, Einar hattari í Reykjavík.
   d, Þuríður giptist Þorgeiri hreppstjóra Andréssyni Egilssonar prests á Útskálum Hallgrímssonar.
   e, Sigríður átti Guðmund bónda Ólafsson í Tungu.
   f, Þóra, kvinna Gísla Þórarinssonar í Garði suður.
   g, Elín, átti Erlend Erlendsson á Lambastöðum, son Bergljótar.
   h, Guðrún, átti Nikulás Sigurðsson Árnasonar og Solveigar Snorradóttur frá Narfakoti.
3. Þórdís giptist Jóni bónda Þorleifssyni á Raufarfelli.

4. Katrín kvinna Jóns Snorrasonar frá Narfakoti Gissurssonar bónda á Ytri-Njarðvík. Þeirra dætur:
   a, Þórdís átti fyrst, Erlend Jónsson á Brunnastöðum, f. 1795 2. apríl.
   b, Sigríður átti Helga stud. Helgason, f. 1799 8 júní.
   c, Kristín átti Jón Jónsson Norðfjörð, f. 1794 15. marz. Þeirra son: síra Snorri prestur í Hítarnesþingum.
   d, Margrèt átti Einar snikkara Helgason f. 1801 1 maí.
5. Sigríður, kvinna Guðmundar Ólafssonar í Brautarholti.
6. Bergljót, átti fyrst Erlend Jónsson hafnsögumann á Bátsendum. Þeirra synir:
   Gísli, — Jón, — Erlendur.

   Seinna átti hún Jón Nikulásson. Þeirra dóttir:
   Ragnhildur, er átti Einar hreppstjóra Jóhannsson í Mýrdal.
7. Þórður á Minni-Mostungum, kvæntist Sigríði Jónsdóttur frá Haga.

Systkyn *Árna* byskups voru þessi:

1. Sigríður, fædd 1785, giptist Guðmundi verzlunarþjón á Ísafirði, Ketilssyni. Þeirra börn: Katrín, Hafliði, Helgi, Ketill og Þórður fæddur 1815; hann lærði hjá móðurbróður sínum og útskrifaðist af honum 1830, sigldi sama ár og tók embættispróf í lögfræði 1835; fekk svo veitta Gullbringu- og Kjósarsýslu 1841; Árnessýslu 1850; hlaut kammerráðs nafnbót 1851. Hann kvæntist 1841 Jóhönnu Lárusdóttir Knudsen, og hefir átt með henni þessi börn:
   a, Oddgeir prest í Sólheimaþingum.
   b, Þórð lækni á Suðurnesjum.
   c, Árna, sem fluttur er til Vesturheims.
   d, Margréti Andreu gipta Páli presti Sigurðssyni.

e, Þorgrím barnaskólakennara á Suðurnesjum.
f, Sigurð, nú útskrifaðan úr Reykjavíkur skóla.
g, Sigríði.

2. Þóra, kvinna Einars bónda í Álptafirði í Ögurssveit. Þeirra börn:
Einar, Helgi og Kristín.

3. Einar, fæddur 1792, kom ungur til Árna bróður síns. Var hjá honum þar til hann sigldi 1816 til Kaupmannahafnar; varð þar eptir 3 ár snikkarasveinn 1819, en var kyrr næstu 4 ár hjá meistara sínum. „Í sjón og reynd einhver efnilegasti maður", — að því sem merkum manni, gagnkunnugum segist frá — „mikill vexti, gjörfilegur og karlmannlegur, fríður sínum og dugnaðarmaður til allra framkvæmda, bæði til lands og sjáfar, svo hann mátti ýkjulaust álítast sem tveggja maki. Hann var jafnan fáorður, og faldi heilar meiningar undir fáum orðum, og þá honum mislíkaði, var hann stundum meinlegur í svari. Hann sagði með mestu greind fyrir verkum og var eptirgangssamur. Var guðrækinn, ráðvandur og viðkvæmur þó lítið bæri á, hjartagóður og hjálpsamur". Hann kvæntist 1826 frændkonu sinni Margrèti Jónsdóttur, Snorrasonar og Katrínar Einarsdóttur, og átti með henni þessi börn:

a, Guðnýu, gipta 1859 Sveini, cand. phil. seinna presti að Staðarbakka, Skúlasyni hreppstjóra, Sveinssonar.
b, Helga, fæddan 1831, útskrifaðan úr Reykjavíkurskóla 1853, sigldi sama ár til háskólans og lagði þar fyrir sig guðfræði, en varð að hverfa þaðan aptur árið 1857, sakir heilsulasleika, og gekk þá á prestaskólann, hvar hann tók burtfararpróf ári seinna, með fyrstu einkunn. Varð síðan forstöðumaður og fyrsti kennari við barnaskólann í Reykjavík. Hann

kvæntist 1873, Magdalenu Jóhannesdóttur Zoëga, ekkju.

c, Snorri, † 1857.

4. Helgi f. 1797, ólst upp hjá foreldrum sínum, og vandist einungis við vinnu, þar til hann var kominn undir tvítugt. Fór hann þá suður að Reynivöllum, og byrjaði þar fyrst á latínulærdómi, undir tilsögn bróður síns, sem síðan kom honum í Bessastaða skóla, hvaðan hann útskrifaðist 1819. Eptir það var hann við verzlun í Flensborg til þess árið 1825, þá hann flutti sig að Ytri Njarðvík, og giptist þar frændkonu sinni Sigríði Jónsdóttur Snorrasonar og Katrínar Einarsdóttur, systur Margrètar konu Einars bróður síns. Hèr bjó hann þau 10 ár, sem hann lifði saman við konu sína, með hverri hann eignaðist 2 dætur, sem dóu á undan honum, og 2 syni, Árna og Hafliða, er lifðu hann og urðu bændur. Dauðamein hans var lifrarveiki, er þó lítið bar á, fyr en á seinasta missiri æfi Jóns. Lá hann 2 seinustu mánuðina hjá Einari bróður sínum í Reykjavík, hvar hann burtkallaðist 3. janúar 1836. „Hann hafði“ — segir sami merki og kunnugi maðurinn, sem lýsir E. bróður hans — „námsgáfur góðar, einkum minni og næmi, þarhjá stöðuglyndi og eptirtekt með góðri greind, líkamskrapta mikla og hörku að því skapi. Var bágstöddum hjálpsamur, vinur tryggur, öllum ráðhollur, ekki að eins með köflum, heldur alltaf eins, því hann var mjög jafnlyndur, altènd eins og hann sást; í öllu dagfari stilltur, í umgengni viðkunnanlegur og gætinn í tali. Var hann fremur fáorður og hversdaglega fálátur, en

gat þó orðið glaður, þegar hann var tekinn tali, einkum meðal kunningja. Við þá, sem honum voru eitthvað viðriðnir, var hann siðavandur, en vandastur þó við sjálfan sig".

5. Hafliði gekk í Reykjavíkur skóla í 3 ár (1800—1802) og var orðinn annar að ofan í neðri bekk, er hann dó.

## Skrá

yfir bækur og rit **Árna** byskups **Helgasonar**,

samin af **Páli** stúdent **Pálssyni**.

### 1. *Prentað.*

1. Recension yfir útgáfu Nýja Testamentisins, prentuð í Khöfn 1807 í Lærde Efterretninger 1808, og Tillæg til № 32 og 33.
2. Frèttir frá Íslandi í Sagnabl. 1817, № 2.
3. Prèdikun 20. sunnudag eptir Trinitatis 1814, í Sýnish. Rasks. 1818.
4. Ágrip af siðabótarsögu til 1555, í Gamans og Alvöru 2. hepti. Beitistöðum 1818.
5. Helgidagaprèdikanir um allt árið. 1. útg. Viðey 1822. 2. útg. Viðey 1839.
6. Í útleggingu Nýja Testamentisins. Viðey. 1827.
   Jóhannesar guðspjall og
   Jakobs pistils fyrri partur.
7. Leiðarvísir til að kenna börnum að lesa, í Ármanni á alþingi. 4. ár. 1832.
8. Ýmsar greinir í Sunnanpóstinum, 1835, 1836, 1838, (einkum frèttir innlendar og

útlendar) hverra með-ritstjóri hann var 2 seinni árin.

9. Í hinni endurbættu útgáfu Biflíunnar 1845, nominatim Gamla Testamentisins, á hann:
   Formálann,
   1. bók Mósis.
   Ruts bók.
   1. og 2. Samúels bók.
   1. og 2. Konunga bók.
   1. og 2. Kroniku bók.
   Jeremías.
   Davíðs sálma.
   Orðskviðina, Prèdikarann og Lofkvæðið, Aðra Makkabeanna bók, og allar hinar aðrar apokrýfisku bækur.

   Því — eins og honum hafa farizt orð — þó aðrir væru til fengnir, brugðust þeir, en stílsetjarinn gekk ríkt á eptir, svo eg mátti hafa það hvort eg vildi eða ekki, og hlaut því opt að vera flýtisverk. Má af þessu ráða, að Árni byskup, og honum næst dr. Egilson, hafa átt mestan og beztan þátt í endurskoðun Gamla Testamentisins, eins og tekið er fram í Biflíufèlags skýrslu dr. P. Pèturssonar. Reykjavík, 1854. Bls. 22.

10. Gaf út formálann fyrir Kvöldvökum Hannesar byskups Finnssonar, ásamt litlum formála eptir sjálfan hann. Kaupmannahöfn, 1853.

*a,* Æfiminningar.

1. Fáorð minning stiptprófastskonu Þuríðar Ásmundsdóttur, Beitistöðum, 1817.
2. Æfi og minning Vigfúsar sýslumanns Schevings. Beitistöðum, 1819.

3. Ræður haldnar við jarðarför assesors Benidikts Gröndals. Viðey, 1823.
4. Æfiminning Markúsar stiptprófasts Magnússonar, Grafskriptin íslenzk og latnesk. Viðey, 1826.
5. Æfiminning og Grafskript prestsekkju Sigríðar Magnúsdóttur. Kaupmannahöfn, 1831.
6. Ræður, haldnar við jarðarför etatsráðs Ísleifs Einarssonar. Kaupmannahöfn, 1837.
7. Talað við jarðarför konferentsráðsinnu Guðrúnar Stephensen. Viðey, 21 júlí 1832. aptan við ljóðmæli Magnúsar Stephensen. Viðey, 1842.
8. Líkræða yfir dómkirkjuprest Gunnlaug Oddsen. Kaupmannahöfn, 1836.
9. Húsræða yfir Ragnheiði Guðmundsdóttur, 1. september 1840. Viðey, 1842.
10. Líkræða yfir skólapilt Steindór Stefánsson, ásamt Grafskript. Í skólaskýrslu 1843—1844.
11. Æfiminning og Grafskript Jórunnar Sigurðardóttur, aptan við æfisögu G. Thorarensens. Kaupmannahöfn, 1845.
12. Ræða haldin við jarðarför Guðrúnar Oddsdóttur frá Engey, 5. nóvember 1818. Í æfiminningu Snorra Sigurðssonar í Engey og hennar. Reykjavík, 1845.
13. Æfi-ágrip Sigurðar sýslumanns Pèturssonar. Framan við leikrit Sigurðar. Reykjavík, 1846.
14. Líkræða við jarðarför Brynjólfs prests Sivertsen á Útskálum. Reykjavík, 1848.
15. Húskveðja og grafskript yfir M. A. Knudsen. Reykjavík, 1851.
16. Líkræða og grafletur yfir Karítas Illugadóttur. Reykjavík, 1864.

17. Ágrip æfisögu Bjarna riddara Sivertsens. Í Sunnanpóstinum 1835, bls. 33.

*b*, Grafskriptir.

Prentaðar sèrstakar eða í tímaritum.

1. Eptir Ólaf stiptamtmann Stephánsson, íslenzk og latnesk. Leirárgörðum, 1812.
2. Eptir Kort bónda Þorvarðsson. Í Klausturpóstinum 1821, bls. 119.
3. Eptir Skapta lækni Sæmundsson. l. c., bls. 120.
4. Eptir Geir byskup Vídalín, íslenzk og latnesk. Í Klausturpóstinum 1823, bls. 170.
5. Eptir Torfa Guðmundsson Thorgrimsen, exam. juris. Í Klausturpóst. 1823, bls. 182.
6. Eptir Konferenzráð M. O. Stephensen. Prentuð sèrstök. Viðey, 1833. Og aptan við ljóðmæli hans. Viðey, 1842.
7. Eptir frú Stephensen, fædda Scheving. Sèrst. Viðey, 1832. Skírnir, 1833. Og aptan við Ljóðmæli M. O. Stephensens. Viðey, 1842.
8. Eptir frú Mörtu Stephensen. Sèrst. Viðey, 1833.
9. Eptir kaupmann H. P. Möller. Sèrst. 1834. Skírnir, 1834.
10. Eptir Björn justitssecretera Stephensen. Sèrst. Viðey, 1835.
11. Eptir yfirrèttar-assessor Ó. H. Finsen. Sèrst. Viðey, 1836. Skírnir, sama ár.
12. Eptir yfirdómara Ísleif Einarsson, íslenzk og latnesk. Sèrst., 1836.
13. Eptir Ingveldi Jafetsdóttur. Sèrst. Viðey 1837.
14. Eptir Einar stúdent Jónsson. Sèrst. Viðey, 1839.

15. Eptir Madame Kristjane Hansen, födt Stephensen, á dönsku. Sèrst. Viðey, 1840.
16. Eptir prestsekkju Elínu Jónsdóttur. Sèrst. Viðey, 1843.
17. Eptir prestsdóttur Ástríði Þorláksdóttur. Sèrst. Viðey, 1845.
18. Eptir Steingrím byskup Jónsson. Sèrst. Reykjavik, 1845. Aptan við líkræður ibid., 1847. Og í Skírnis 20. árg., bls. 81.
19. Eptir ekkjufrú Sigríði Halldórsdóttur Vídalín. Sèrst. Reykjavík, 1845.
20. Eptir Mad. Þuríði A. M. Jacobsen. Sèrst. Reykjavík, 1846.
21. Eptir kaupmann Símon Hansen, á dönsku. Sèrst. Reykjavík, 1847.
22. Eptir kaupmannsekkju A. Knudsen, fædda Hölter. Sèrst. Reykjavík, 1849.
23. Eptir gullsmið Þorgrím Thomsen. Sèrst. Reykjavík, 1849.
24. Eptir verzlunarmann Guðmund Pètursson. Sèrst. Reykjavík, 1849.
25. Eptir ekkjufrú Helgu B. Gröndal. Sèrst. Reykjavík, 1855.
26. Eptir ekkjufrú Valgerði Jónsdóttur. Sèrst. Reykjavík, 1856.
27. Eptir jómfrú Margrèti Jónsd. Sèrst. Reykjavík, 1856.
28. Eptir Jón Jónsson Norðfjörð. Sèrst. Reykjavík, 1857.
29. Eptir dr. H. L. Scheving, íslenzk og latnesk. Sèrst. Reykjavík, 1862.
30. Eptir lector theol. Jón Jónsson. Í „Íslendingi“ 1861, bls. 152. Og aptanvið útfararminningu hans. Reykjavík 1864.
31. Eptir gullsmiðsekkju Ingibjörgu Jónsdóttur Thomsen. Sèrst. Reykjavík, 1865.

32. Eptir Gísla lækni Hjálmarsson. Sèrst. Reykjavík, 1867.

### 2. *Rit, óprentuð.*

1. Fyrtèð verðlaunarit hans, sem sè svar uppá spurningu háskólans: Ostendatur, qvænam vel in ipsis sacris litteris, vel in monumentis ævi apostolici vestigia philosophiæ cujusdam orientalis reperiantur. 35 arkir. 4to.
2. Æfisaga Melanchtons í 13 kapít. 48 blöð. 4to.
3. Æfiágrip Franklíns. 20 bl. 8vo. — nokkuð orðfyllra og öðruvísi orðað, en það, sem prentað er í Sunnanp. 1838, bls. 97.
4. Greinar: *a*, um Jenner á 4 bl. 4to.
   *b*, um ábóta de l'Epée á 4 bl.
   *c*, um Dupont de Nemours á 2 bl.
5. Ýmsir smáritlingar, sögu- og siðferðislegs efnis: t. d. Um minni.—Summum bonum. — Fangelsi fyrir skuldir. — Um sjálfsafneitun. — Auð. — Lífsins volæði.—Huggun.—Verkun sællífis. — Saga af Ortagul. — Sendibrèf (um góðkvendi). — Sýslanir. Unaðsemd. — Díogenis bæn. — Um vinskap. — Kærleiksverk. — Ferðasaga, með hugleiðingum þar að lútandi. — Mikilmennska heima. — Betrunaráform. Allt á hèr um bil 12 arkir.
6. Saga af Genovevu m. fl. á 10 bl.
7. Guizot, Democratíið í Frankaríki. 7 ark. 4to.
8. Um Nóaflóð (eptir Edvard Stern). 6 bl. 4to.
9. Ritgjörð um háan aldur. 4 bl. 4to.
10. Saga af Fihoti. 9 bl. 4to.
11. Lífssaga Delazare. 8 bl. 4to.
12. Lýsing Garða- og Bessastaðasókna.

Enn fremur nokkur handrit ekki fullbúin.

# Lærisveinatal

## **Árna** byskups **Helgasonar,**

samið af stúdent **Páli Pálssyni.**



### A. *Útskrifaðir af honum:*

1. Árni Guttormsson frá Hofi í Vopnaf., 1820.
2. Árni Sandholt, kaupmaður, 1833.
3. Baldvin Einarsson, cand. juris, 1825.
4. Benjamín Hansson Hjaltalín, er varð barnaskólakennari í Álaborg? 1814.
5. Eggert Jónsson, læknir, 1816.
6. Finnur Thorsteinsson, examinatus juris, er dó í Danmörku, 1822.
7. Gísli Hjálmarsson, hèraðslæknir, 1831.
8. Grímur Thomsen, Dr. phil. á Bessast., 1837.
9. Hafliði Markússon, er síðar bjó sem bóndi í Árnessýslu, 1833.
10. Hannes Steingrimss. Johnsen, kaupm., 1830.
11. Hans Friðrik Hansson Hjaltalín, verzlunarmaður, 1814.
12. Högni Einarsson, er dó í Khöfn, 1825.
13. Jón Johnsen, borgmeistari í Álaborg, 1825,
14. Kjartan Jónsson, prestur í Skógum, 1827.
15. Lárus Thorarensen, sýslum. í Enni, 1816.
16. Magnús Stephensen, justitsr. í Vatnsd., 1816.
17. Oddg. Stephensen, stjórnardeildarstj., 1831.
18. Ólafur Einarsson Johnsen, prófastur á Stað á Reykjanesi, 1831.
19. Ólafur Ólafsson, prestur á Reynisstað og víðar, 1829.

20. Ólafur Stephensen, Audit. í Ebeltoft, 1810.
21. Ólafur Stephensen, justitsráð í Viðey, 1810.
22. Skúli Thorarensen, hèraðslæknir, 1824.
23. Stefán Stephensen, prestur á Reyniv., 1825.
24. Sveinbjörn Egilsson, dr. og skólastj, 1810.
25. Þórarinn Erlendsson, prestur á Hofi í Suðurmúlasýslu, 1822.
26. Þórður Guðmundsson, kammerráð á Litlahrauni, 1830.
27. Þorst. Jónsson, kanselír. á Kiðjabergi, 1836.
28. Útskrif. hann, sem kandíd. í Khöfn 2 danska menn; hèt annar þeirra Becker, hinn ónafngreindur.

B. *Undirbúnir undir dimission:*

1. Jón Hjörtsson, prestur á Gilsb., dim. 1838.
2. Jón Högnason, prestur í Hrepph., dim. 1831.
3. Páll Matthiesen, prestur í Arnarb., dim. 1831.

C. *Undir siglingu undirbjó hann:*

Erlend Þórarinsson sýslumann í Ísafjarðars.

D. *Undirbúnir undir skóla:*

1. Benedikt Guðmundsson Scheving, prestur á Fjóni.
2. Hannes Stephensen, próf. á Ytrahólmi.
3. Helgi Helgas., bróð. Á. b., er varð verzl.m.
4. Jón Hanness, Finsen, hèraðsfóg. í Árósum.
5. Jón Markússon, kaupm. í Reykjavík.
6. Jón Constant Ólafss. Finsen, dr. stiptsphysik.
7. Olafur Hanness. Finsen, ass. í landsyfirrètt.
8. Ole Peter Ólafsson Finsen, póstmeistari.
9. Pètur Stephensen, prestur á Ólafsvöllum.
10. Sigurður Arnþórsson, prestur á Mælifelli.
11. Þorsteinn Þórarinsson, próf. í Berufirði.

## Innihald.

# ÚTFARARMINNING

# SIGRÍÐAR HANNESDÓTTUR

## BYSKUPSFRÚAR



REYKJAVÍK 1877
PRENTUÐ Í PRENTSMIÐJU „ÍSAFOLDAR“
SIGM. GUDMUNDSSON

# Húskveðja

## við jarðarför byskupsfrúar **Sigríðar Hannesdóttur,**

flutt af síra **Þórarni Böðvarssyni,** presti í Görðum.

Drottinn, þú varst og ert og verður frá eilífð til eilífðar, og þú hefir fyrir þinn son Jesúm gefið oss von eilífs lífs hjá þér. Í þèr hefir sá hryggi og þreytti andi hvíld og frið; þú ert athvarf hans, þegar þessi jarðneska tjaldbúð hrynur. Þegar vor stundlegi hluti forgengur, styrktu þá í oss það eilífa, það sem er af þèr. Þegar vor jarðnesku augu lokast, svo vèr sjáum ekki þessa stundlegu bústaði, opnaðu þá sjónum andans þá himnesku bústaði, sem Jesús hefir fyrirbúið oss hjá þèr, og meðtaktu oss og þá, sem vèr elskum, í þær eilífu tjaldbúðir. Amen.

---

*„Þèr hafið nú að sönnu hryggð, en eg mun sjá yður aptur, og yðvart hjarta mun fagna, og yðvarn fögnuð tekur enginn frá yður“* (Jóh. 16, 22).

Þessi orð eru ein af þeim guðdómlegu orðum, sem frelsari vor Jesús huggaði með sína harmþrungnu lærisveina, þegar hann ætlaði að skilja við þá. Sú sára hryggð þeirra kom af því, sem hann hafði sagt: „Innan skamms munuð þèr ekki sjá mig“; en fagnað-

arefnið var þetta: „innan skamms munuð þèr sjá mig aptur, því eg fer til föðursins". Hve opt megum vèr biðja frelsara vorn, að lífga í sálum vorum þessi huggunarorð, þegar vèr, eins og hann, eigum að skilja við þá, sem vèr elskum. Vèr höfum þá hryggð, því það er sterkt þetta band, sem tengir hjörtun saman, það getur ekki slitnað nema með harmkvælum. Þegar þeir eiga að hverfa oss, sem urðu oss samferða og voru tengdir oss böndum elskunnar, hve mjög þurfum vèr þá, að guð huggi oss með því fyrirheiti, að vèr munum sjá þá aptur! Hann einn getur þá gefið oss frið. Hve endurnærandi er það þá, að frelsarinn er farinn til föðursins, og hefir eptirskilið þessi huggunarorð: „faðir, eg vil að þeir sem þú gafst mèr sèu hjá mèr, þar sem eg er"! Því honum er gefið allt vald.

Vèr, sem erum komnir saman að þessu sorgarhúsi, höfum nú hryggð, því innan skamms munum vèr ekki sjá þá háæruverðugu húsfrú þessa húss. Vèr höfum nú að vísu ekki þá sáru hryggð, sem stundum heimsækir oss, þegar ráð drottins er oss með öllu hulið, og oss liggur við að örmagnast undir þeirri byrði, sem hann leggur á. Nei, vor hryggð er nú kyrlát í guði; vèr finnum hans náðar nálægð, vèr finnum með friði og rósemi, að vegir hans eru miskunn og trúfesti. Vèr minnumst nú með kyrlátri hryggð, hver þessi framliðna var, og hvað hún var í þessu húsi. Vèr virtum hana og elskuðum, eins og allir sem þekktu hana. Hún var af einum þeim bezta ættstofni á þessu landi; hún var að vísu ekki sú sterka grein, sem er kjörin til að vera máttarviður í mikla byggingu; hún var lík því hógværa blómi, sem

helzt vill dyljast, en getur ekki dulizt, og veitir ánægju og gleði hverjum þeim, sem nálgast það. Það sem vakti eptirtekt allra, sem kynntust henni, var sá barnslegi guðsótti, sú sannkristilega hógværð, sú tállausa hreinskilni, sú hjartanlega velvild, sem bjó í hennar hjarta. Hún var einföld eins og dúfa. Hjá henni áttu í sannleika heima þessi orð postulans: „Skart þeirra sè ekki fólgið í hinu útvortis, heldur í hjartans innvortis ásigkomulagi, í óforgengilegu skarti hógværs og kyrláts hugarfars, sem dýrmætt er fyrir augliti guðs. Því þannig prýddu sig forðum hinar helgu konur, sem settu von sína til guðs“. Þannig prýddi hún sig líka. Hún setti von sína til guðs, og sú vonin brást ekki. Hans friður var í hennar hjarta; hún hafði frið við hann fyrir hans son Jesúm, frið við sjálfa sig, stöðugan frið við alla menn. Hún var eitt af þeim lukkulegu börnum guðs, sem jafnan eru ánægð með hans ráð, sem ekki krefjast neins af honum, en fá þó allt, sem þau girnast, fá miklu meira en þau þurfa til að láta sèr nægja hans náð. Guð gaf henni hèr það, sem hún girntist. Eins og hann gaf henni þau dýrmætustu andlegu gæði, frið og rósemi hjartans, svo gaf hann henni yfirgnæfanlegt af þeim jarðnesku gæðum. Sá heiður, sem hún var borin til, hlotnaðist henni ríkulega í sambúð við þann ektamann, sem almennt var virtur. Af auðæfum þessa heims hafði hún meir en nóg fyrir sig og sína, hafði svo mikið, að þetta hús gat ávalt staðið opið fyrir gestinum og hinum þurfandi. Guðs forsjón fyrir henni var föðurleg, og hann gaf henni að sjá og finna, að hún var föðurleg. Einnig þá, þegar það varð ekki,

sem hún ætlaði, varð það nýtt tilefni fyrir hana til að þakka guði fyrir það, að hann gjörði betur við hana, en hún hafði vit á. Hennar síðasti vitnisburður um þetta líf var þessi: „það er gott allt saman". Líf hennar var líkt ljósi, sem lýsir hægt og jafnt, og lýsir og vermir svo langt sem það nær, án þess að kasta skugga á neitt. Og eins og lífið leið fram eins og ljós, svo endaði það, eins og þegar ljós slokknar. Það var eins og lampi jarðlífsins slokknaði sjálfkrafa, af því að sú jarðneska olía væri brunnin upp. Dauðinn, sem opt skilur eptir svo beiskar endurminningar þeirra síðustu stunda, kom hingað eins og friðarengill til að kalla þann andann, sem hafði lifað hèr í friði, í þá eilífu friðar bústaði. Hann, sem gat henni hèr sinn frið, lèt líka sína þjónustukvinnu fara hèðan í friði. Vèr höfum nú að vísu hryggð, af því þetta ljós er slokknað, en vor hryggð er í guði, því hún lifði í honum og er fyrir Jesú náð farin til föðursins.

Yðar hjörtu hafa nú hryggð, þèr heimamenn hennar, þegar sú húsmóðir hverfur yður, sem var yður öllum eins og góð móðir. Þèr minnizt þess nú, að þessar varir, sem nú eru stirðnaðar, ávörpuðu yður aldrei nema með hógværð og blíðu. Þèr minnizt þess nú, að móðurleg umhyggja skein ávallt úr þessum augum, sem nú eru brostin. Þeir hafa hryggð, hinir snauðu og sorgbitnu, þegar sú höndin er stirðnuð, sem svo fúslega var rètt þeim til hjálpar, sem í kyrrþey þerraði harmatárin. Þeir sjá hana aptur, þegar hún meðtekur launin af honum, sem endurgeldur opinberlega það, sem í leyni er gjört, honum sem sagði: „Það sem þèr gjörið einum af mínum minnstu bræðrum,

það gjörið þèr mèr“. Þèr hafið nú hryggð, hennar háttvirtu ættingjar; þèr hefðuð kosið, vèr hefðum allir kosið, að hún hefði mátt gegna til enda því starfi, sem hún hafði gjört að aðalköllun lífs síns, að lètta sínum elskaða ektamanni þunga ellinnar. Þegar þessu starfi væri lokið óskaði hún sjálf, að hún mætti fara hèðan; hún treystist ekki til að bera þá hryggð, að sjá hann ekki, og þó ekki væri nema um lítinn tíma. Sú virðing, sem vèr berum fyrir honum, var hjá henni sameinuð innilegri elsku. Hún þekkti ekki aðra lukku en hans, vilji hans var henni ekki lögmál, heldur sæl gleði; hún sá hann í augum hans, fann hann í hjarta hans; þegar hún gat gjört hann, var hún sæl, ef hún gat það ekki, var hún þolinmóð. Hún átti þannig mikinn þátt í því, að þetta hús var öllum gleðihús, þar sem hógvær gleði brosti við öllum, eins og það væri bústaður saklausrar æsku. Það vakti þegar hryggð hjá oss, þegar kraptar hennar þverruðu svo, að hún varð að hætta þessu kæra og sæla starfi. Það vakti hryggð, og þó háleita gleði, þegar kraptar beggja þeirra voru svo þrotnir, að hvorugt gat veitt öðru lið, en umhyggjan var þó sú sama. En einn var sá kraptur, sem ekki var þrotinn, kraptur bænarinnar. Og hver er kraptur vor, hvert er athvarf vort, hvað er eign vor, annað en að lypta þessum veika anda upp til hans, sem einn frelsar í allri neyð. Hennar eptirþreyjandi ekkill hefir nú hryggð, vèr hryggjumst hans vegna og með honum. Þeir sterku líkams kraptar hans eru nú svo þrotnir, hans fágætu sálarkraptar eru nú svo veiklaðir, að hann megnar ekki að sjá þennan bezta vin sinn hverfa hèðan. Hann sèr nú ekki, sèr að

líkindum ekki framar þann stað, sem nú tekur við hennar jarðneska dupti; hún hefir sèð þann stað, sem er fyrir búinn hans anda, þar sem hann sèr hana aptur.

Sú alvarlega stund er þá komin, að vèr hljótum að færa hennar jarðneska hluta hèðan. Hún kveður í kærleika þá, sem lifðu hèr með henni í kærleika. Hún kveður í kærleika alla, sem af ást og virðingu fyrir henni hafa safnazt hèr á þessari stund. Honum, sem hún elskaði mest, sendir hún einkum þessa skilnaðarkveðju: þú hefir nú að sönnu hryggð, en innan skamms mun eg sjá þig aptur, þá mun þitt hjarta fagna, og enginn taka þinn fögnuð. Farðu í friði sæla framliðna; vèr þökkum þèr þann þátt, sem þú áttir hèr í gleði vorri, þá hlutdeild, sem þú tókst í sorgum vorum; hryggur af þínum völdum hefir aldrei neinn farið hèðan. Þegar þinn jarðneski hluti er nú borinn úr þessum dauðans bústað, leita sálir vorar ósjálfrátt eptir þinni burtförnu sálu til þeirra eilífu bústaða, og vèr biðjum fyrir þèr, þínum eptirskilda ástvini og oss sjálfum: Jesús, vor frelsari, þú ert vort líf í lífi og dauða, gef oss að hafa lífið í þèr; gef oss þinn frið. Þegar vèr stöndum við hið lokaða port eilífðarinnar, þar sem þeir, sem vèr elskum, hafa horfið oss, og hlustum en heyrum ekkert, og störum en sjáum ekkert, gef oss þá að heyra þessi orð: „eg mun sjá þig aptur“. Láttu oss þá finna, að hvorki dauði nè líf getur skilið þína við þinn kærleika, að þú gefur þeim eilíft líf og enginn slítur þá úr þinni hendi. Amen.

---

# Ræða

við jarðarför byskupsfrúar **Sigríðar Hannesdóttur,**

flutt af dómkirkjupresti og prófasti **Ólafi Pálssyni.**

Þèr, gæzkuríki guð og faðir á himnum! þér, sem ræður bæði lífi og dauða, og úthlutar sorg og gleði, helgum vèr þessa sorgarstund. Þú gjörðir hana, drottinn, þú sem allt gjörir bæði af miskunn og mildi; eptir þínum vilja hefir hèr orðið ástvinaskilnaður, en gef þú þinn sæla frið hverju því hjarta, sem syrgir hèr eptir, og veit, að því sè aldrei gleymt, að þó hèr skilji um stund, þá liggja fyrir alla þá, sem trúa á þig, leiðirnar saman í þínu himneska ríki. Amen!

---

Það er bæði með söknuði og virðingu, að vèr nemum staðar hjá þessari líkkistu, áður en þær dauðlegu leifar, sem hún hefir að geyma, verða færðar til grafarinnar. Hún, sem hèr hefir fallið frá, var svo elskuverð í allri umgengni sinni og dagfari, að þó hún hefði náð því, sem vèr köllum ellinnar daga, þá verður hún harmdauð mörgum, og ekki einungis þeir, sem við missir hennar hafa um hið viðkvæmasta sorgarsár að binda, heldur og margir aðrir helga minningu hennar hreinskilin saknaðartár. Og í hjörtum allra þeirra, sem til þekktu,

verður minning hennar geymd með virðingu, sem hin hreina og skæra dyggð ætíð aflar sèr. Hann er fagur, sá minnisvarði, sem ætíð hlýtur að byggjast í hjörtum vorum, þegar vèr lítum til baka yfir liðinn langan lífsferil, sem genginn var í grandvarleik guðs. Hún er meira en jarðnesk, sú fegurð, sem útbreidd er yfir líf þess, sem svo varði lífsins dögum fyrir hina himnesku arfleifð sína. Og fagurt er þá æfinnar kveld, þegar það líður svo út, að af því tekur við morgunljómi sællar eilífðar. Það er eilíft og óbrigðanlegt, hið helga orð, sem segir: *„þeir rèttlátu skulu lifa eilíflega; drottinn er þeirra verðlaun og hinn hæzti hefir umhyggju fyrir þeim“* (Spek. b. 5, 16.). Já, þetta rætist á hinum guðhrædda í lífinu, því að í friði og rósamur fetar hann skeið lífsins, leiddur af hinni himnesku föðurhendi, og hann skilur við þennan heim, til þess að verða meðtekinn á hina himnesku föðurarma. Guð er í lífinu hans hjálpræði, og að enduðum degi lífsins tekur hann hann til sín. Hinn rèttláti deyr dauða hinna rèttlátu, hann deyr í drottni, og verk hans verða honum samferða. Sá er sæll, sem lifir svo, að hann getur sameinað þessar hugsanir við hugsunina um dauða sinn, og enn sælli, þegar hinn alvarlegi sendiboði drottins, dauðinn, kemur, en kemur eins og engill friðarins, til að færa hann þangað, er allt þetta fullkomnast honum.

Hugsunina um þetta, sem mýkir svo mjög dauðans sára brodd, sameinum vèr við þessa sorgarfundi við minningu hinnar sælu frúar, sem hèr hefir skilið við heiminn. Hún gekk svo allt skeið lífsins, að það var ljós vottur um föðurlega umhyggju og handleiðslu guðs; og hún varði því svo, að eins og hún í hjarta sínu

jafnan fann það og reyndi, að drottinn var hennar mikil verðlaun, eins gat hún á hinni síðustu stundu lífsins horft rósöm fram á hlutskipti þeirra, sem fara hèðan til þess að lifa eilíflega með honum.

Hún var fædd í heiminn hinn 20. dag septembermánaðar árið 1795, af einhverri hinni göfugustu ætt hèr á landi, og er þetta kunnugra en svo, að hèr þurfi að rekja það. Föður sinn missti hún þegar í hinni fyrstu æsku, en undir höndum ástríkrar móður, og þess, sem gekk henni í föðurstað, innrættist henni með hinni beztu menntun sá guðsótti, sem auðkenndi allt líf hennar, enda hafði guð gefið henni það hjartalag, að þar sem hún var, mátti með sanni segja, að hið góða sæði fèlli í góða jörð. Árið 1835 giptist hún úr foreldrahúsum hinum nú eptir þreyjandi og sárt syrgjandi manni sínum, og var það hvort tveggja, að hann bar hana jafnan með ástúð á höndum sèr, enda vann hún allt til dauðans með trúmennsku hið fagra verk, að gjöra með blíðu sinni og ást glaðar og rósamar æfistundir hans, þegar tekið var að kvelda og líða á daginn. Og þannig leið rósamlega æfi hennar, þangað til hún, eptir ekki langar þjáningar, blundaði hinum síðasta blundi, hinn 19. dag þessa mánaðar.

Hver sá, sem nokkuð þekkti til, hann mun, þegar hann í huga sínum lítur yfir líf þessarar sælu framliðnu, og gætir þess, hvernig öll umgengni hennar var, hljóta að kannast við það, hversu mjög mikið hún bar af hinu sanna skarti, sem fólgið er í innvortis ásigkomulagi hjartans, í hógværu og kyrlátu hugarfari, sem dýrmætt er fyrir augliti guðs. Hjá henni voru hin fögru blóm kvenndyggðanna í sannleika

sprottin frá rótum hjartans, og þar bjó sú falslaus guðrækni, sem gaf þeim sína frjófgun. Og í dagfarinu skörtuðu þau, laus við allt prjál, og án þess að vera borin til sýnis fyrir heiminum, en þó svo, að það hlaut að skína eins og fögur fyrirmynd fyrir öðrum. Þetta kom fram í stillingu og hógværð og geðprýði og þeirri tryggð hjartans, sem sameinuð var við hreinan góðvilja. Umgengni hennar var svo, að hún mun sjaldnast hafa verið fundin í ógætilegu orði eða athöfn, því að hún hafði í hjarta sèr þann guðsótta, sem er dyggðarinnar trúi vörður; sál hennar hafði guð jafnan fyrir augum sèr, og því varð hegðun hennar svo löguð eptir vilja hans.

Með öllu þessu var það að líkindum, að hún var hin bezta húsmóðir. Með stöðugri trúmennsku og árvekni gætti hún skyldu sinnar; og þó framgangan væri gjarnast líkust hinu stillta ljósi, þá mátti jafnan sjá, að fullkomlegri stjórnun var haldið yfir öllu. Hún var svo virt af hússins heimamönnum, að hjá henni var hin hægferðuglegasta bending næg til þess að ávinna hlýðni, og í nálægð hennar munu flestir gjarnan hafa haldið sèr frá þeim orðum og atvikum, sem ekki sómdu. Og hún átti með sinni blíðu hógværð sína hlutdeild í því, að í húsinu bjuggu jafnan friður og rósemi, eins og hinir blíðu englar, sem færðu því hvers kyns heill. Hún hafði ætíð guð í hjarta sínu, og þess vegna var hann einnig með henni í verki, svo að iðja hennar var rík af blessun.

Þó lífdagar þessarar sælu framliðnu væru teknir að fjölga, og hún væri komin á það aldursskeið, er hver einn má búast við viðskilnaðarstund sinni, þá er með öllu þessu hrein-

skilinn söknuður í hjörtum margra, þegar hún er fallin frá. En það eru og margir þeir, sem með sorg og trega sjá henni á bak, því að þeir höfðu reynt og þekkt góðvild hennar og hjartagæzku. Hún gjörði gott og gladdi margan auman, en eins og allt líf hennar var fordildarlaust, eins gjörði hún þetta svo lítið bar á því. Ef til vill duldist það stundum fyrir heiminum, en það var ekki hulið fyrir honum, sem endurgeldur hin sönnu góðverk, því að þær fórnir þóknast honum. Sjálfri auðnaðist henni eigi að njóta móðurgleðinnar; en það voru fleiri en eitt barn, sem hún annaðist frá æsku og fram á fulltíða aldur, og gekk í ástríkrar móður stað, eins og þau hefðu verið hennar eigin, og hjá þeim mun lengi verða lögð þakklát blessun yfir minningu hennar, fyrir það góðverk, sem hún vann á þeim. Og með líkum hætti munu þeir minnast hennar, hinir mörgu, sem enn nú lifa af þeim, er undir hana voru gefnir á heimilinu, því að hún var þeim öllum eins og góð móðir. En hið viðkvæmasta sorgarsár hefir í fráfalli hennar snortið hjarta hins elskaða eiginmanns hennar, sem þreyr hèr eptir, sjálfur líðandi og niðurbeygður af þunga ellinnar. Hún er fyrri farin hèðan, þótt hún væri yngri að árum, hún, sem í meir en 34 ár bjó með honum með hreinni og tryggri ást. Guð einn veit, hve daprar þær stundir hljóta að verða, sem eptir eru, þegar sú sambúð hefir slitnað, og hin mjúkláta hönd, sem stjórnaðist af hinni helgu ást, til að hjúkra, hefir kólnað við aðkomu dauðans. Æ, vèr getum allir með hjartans hluttekningu vorri tekið þátt í hinni sáru skilnaðarsorg, sem hèr hefir borið að hendi. En hvað getum vèr annað, en

það, sem vèr vitum, að hann muni gjöra, sem hèr ber hina sárustu sorg? en það er að fela það, sem hèr er borið að hendi, miskunnsemi guðs, því að hún varir að eilífu, og hann er eins vor gæzkuríkur faðir, þótt hann láti oss ganga um sorgarbrautir. Og eitt vitum vèr, í trú á hans heilaga orð, en það er, að þó dauðinn nái hèr til að skilja, þá er sú ást, sem er af guði, sterkari en dauðinn, og þau helgu bönd, sem hún hefir tengt, slitna hèr stundlega einungis til þess, að þau verði aptur eilíflega tengd í hinum sælla heimi. Þangað horfir hið trúaða hjarta með lifandi von, þegar ástvinastoðirnar hverfa, og það er ætíð þess bezta huggun.

Minning hins rèttláta er í blessun, og svo verður hjá oss einnig geymd minning þessarar sælu framliðnu. Guð framleiddi hana um langt og fagurt æfiskeið. Hann veitti henni í ríkulegum mæli sitt bezta lán, því að hann gjörði hana eins og sitt elskulegt barn, sem ætíð fram gekk hèr í grandvarleika fyrir honum, og hann gaf henni í öllu að búa við þau kjör, sem gjörðu glaðan og greiðan veg lífsins. En hitt var þá sameinað við það, að hún með hreinni og falslausri trúmennsku og dyggð gætti hins mikla láns, sem forsjónin hafði veitt. Hún var í öllum greinum eins og hin sanna þjónustukvinna drottins, sem fól sig ætíð undir hans náðarvilja og orð, og hún hefir víst í undirgefni undir hann búizt við sinni viðskilnaðarstund. Hún lifði í drottni, og því hefir hún notið þeirrar sælu, að deyja í drottni. Hún geymdi guð ætíð í hreinu hjarta, og því hefir hún nú farið til þess að sjá hann augliti til auglitis, og vera eilíflega í hans náðar-nálægð. Eins og hans elskulegt barn hefir hún farið til þess að taka

sæla hvíld á hans föðurörmum. Kvenndyggð hennar, sem skartaði hèr svo fagurt, skín nú í dýrðarljósi eilífðarinnar. Guð hefir veitt sínu ástfólgna barni þá sælu, og gefið því sigurinn fyrir drottinn Jesúm Krist. Amen!

---

# Grafskript

yfir byskupsfrú Sigríði Hannesdóttur,

ort af prófasti og dómkirkjupresti **Ó. Pálssyni.**

---

**Mold hvarf til jarðar,**
**Af jörðu komin,**
**En frelsuð sál**
**Til föðurhúsa,**

**frú Sigríðar Hannesdóttur,**

byskups Finnssonar.

Hún var fædd 20. dag septembermán. 1795;
giptist 14. dag ágústmán. 1835
**Árna** byskupi **Helgasyni;**
andaðist 19. dag októbermán. 1869.

---

Fyrirmynd kvenna
Í fögrum dygðum:
Guðrækni, stilling,
Geði ljúfu,

Alúð og ást
Við ektamaka,
Hreinlyndi, tryggð
Og hjartagæzku.

---

Hún lifði hèr
Sem ljósið skæra,
Er blaktir ei,
Með blíðu skini;
Og grandvör lífsins
Götu þræddi,
Því huga var
Til himna snúið.

Leið frá oss burtu
Ljósið dygða,
Af dauðans hulið
Döpru húmi.
En aptur það skín
Í æðra heimi,
Drottins upplífgað
Dýrðarljóma.

Þar hefir hjartað
Hreina fundið
Friðsæla hvíld
Á föðurörmum,
Þar munu síðar
Sælir fundir
Þeirra, sem hèr
Með harmi skildu.

*„Mín sála deyi dauða hinna rèttlátu“.*
(4. Mós. 23, 10.).

